per breue de priuato sigillo
& de data predicta etc.

---

**167. 20. maí 1458. Westminster.**

LEYFISBRÉF veitt Ricardusi Arnold þess efnis, að hann megi gera út skipið Marie Arnold frá „Crowemer“, 120 lestir að stærð eða minna, ferma það alls konar vörum nema „stapúluvarningi“ og halda því til Íslands og Finnmerkur, hlaða það þeim vörum, sem fást í þessum löndum, og flytja til sölu í Englandi. Leyfið gildir í hálft annað ár og er bundið því skilyrði, að skyldir tollar og skattar séu greiddir af öllum varningnum. Formálar bréfs þessa eru þeir sömu og nr. 165.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/140, — 36. Henry VI. bl. 14.

---

**168. 27. október 1458. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Nicholausi Carrewe og Wilelmusi Crustyn riddurum þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár ónafngreint skip, 40 lestir að stærð eða minna, til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Þeir mega hlaða skipið alls konar vörum nema „stapúluvarningi“ og verzla með fengnar vörur erlendis frá frjálslega í Englandi, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur fái skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI. bl. 34.

---

**169. 20. nóvember 1458. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Shippeward kaupmanni þess efnis, að hann megi gera út í ett ár skipið „le Cristofore“ frá Bristol til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI. bl. 34. Útdráttur birtur í O.T.B. bls. 120.

---

170. 29. nóvember 1458. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Henricusi Bayly skipstjóra á „la Marie“ frá Kyngeston við Hull, 140 lestir að stærð eða minna, þess efnis, að hann megi gera út skipið í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 34.

---

171. 9. marz 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 132 veitt Wilelmusi Richer riddara þess efnis, að hann megi gera út tvö næstu ár ónafngreint skip af ótilgreindri stærð frá hvaða enskri höfn, sem honum þóknast, hlaðið hvers konar vörum nema „stapúluvarningi“ og halda því til hvaða hafnar, sem hann vilji, á Íslandi og Finnmörku, en ferma það þar fiski og öðrum vörum þar fáanlegum og flytja til Englands. Fullt frelsi er honum leyft til slíkra viðskipta, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 21.

---

172. 13. marz 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Merwyn riddara þess efnis, að hann megi gera út eitt skip ónafngreint og af ótilgreindri stærð í eitt ár til Íslands og Finnmerkur með sömu formálum og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 21.

---

**173.** **26. marz 1459.** **Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Thomasi Strykeland' þess efnis, að hann megi gera út ónafngreint skip, 400 lestir eða minna, eða þrjú eða tvö með sama burðarmagni samtals, í þrjú ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 21.

---

**174.** **5. maí 1459.** **Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Jordanusi Sprynge frá Bristol þess efnis, að hann megi gera út næstu þrjú ár ónafngreint skip, 400 lestir að stærð eða minna, eða tvö skip með sama burðarmagni samtals, hlaða það eða þau hvers konar varningi nema „stapúluvarningi“ og halda því eða þeim til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af viðskiptunum. Leyfið er enn fremur bundið því skilyrði, að Jordanus fái siglingaleyfi hjá andstæðingum konungs.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 17. Útdráttur birtur í O.T.B., bls. 120. Þann 18. júní s. á. fær J. S., George Roche o. fl. kaupmenn í Bristol leyfi til að stunda verzlun erlendis án nokkurra staðaákvarðana og takmarkana.

---

**175.** **5. maí 1459.** **Westminster.**

LEYFISBRÉF svipað og nr. 132 veitt Thomasi Kyme riddara þess efnis, að hann megi gera út næstu 5 ár ónafngreint skip af ótilgreindri stærð frá hvaða enskri höfn, sem honum þóknast, hlaðið hvers konar varningi nema „stapúluvörum“ og halda því til hvaða hafnar, sem hann vilji, á „Yseland'“ (Íslandi), Finnmörku, Gascogne og Guyan', en ferma það þar fiski nefndum „Stokfyss“, víni og öðrum varningi þar fáanlegum og

flytja til Englands. Hann fær fullt frelsi til slíkra viðskipta svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 13.

---

176. 7. maí 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF veitt Garmanusi Lynce, borgara í Lundúnum, þess efnis, að hann megi gera út tvö skip ónafngreind og af ótilgreindri stærð í fimm komandi ár til Íslands og Finnmerkur og afla þar fisks og annars varnings, sem þar er að fá, og flytja frjálslega til Englands, þó að ókrenktum lögum og tilskipunum, sem öðruvísi mæla fyrir, og konungur fái greidda skylda tolla og skatta af viðskiptunum. „Stapúluvarning“ má hann ekki flytja frá Englandi.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 6.

De licencia versus partes Island’ Lynce.

Rex Omnibus ad quos etc. salutem. Monstrauit nobis Germanus Lynce cius & Aurifaber’ London’ quod licet in statuto in Parliamento nostro apud Westm. Anno regni nostri octauo tento edito prohibitum sit & ordinatum ne quis ligeorum subditorum nostrorum regni nostri Anglie proprie temeritatis ausu aliqua regna terras dominia districtus terretoria iurisdiciones & loca Regis Dacie Norwegie & Svesie causa optinendi vel habendi pisces aut alia quecumque bona seu mercandisas preterquam ad Stapulam suam de Norbern’ adire ingredi seu intrare presumat sub pena forisfactur’ omni bonorum suorum mobilium & imprisonamenti persone sue ad voluntatem nostram prout in statuto predicto plenius continetur Vnde idem Germanus nobis humiliter supplicauit vt sibi occasionibus premissis licenciam nostram quod ipse duas naues cuiuscumque portagij existant seu quibuscumque nominibus censeantur ac mercandisas quascumque ad Stapulam nostram Cales’ non pertin-

entes in eisdem nauibus careand' vsque dictas partes de Island' & ffynmarch' pro piscibus & aliis mercandisis ibidem perquirend' transmittere & traducere easdem naues & earum alteram de piscibus & aliis mercandisis in eisdem partibus earcare & illas naues sic careatas in regnum nostrum Angliam adducere possit licite & impune gratiose concedere dignaremur. Nos notabile & fidele seruicium nobis per eundem Germanum infra predictam ciuitatem nostram London' & in aliis diuersis locis ad suos grandes custus labores & expensas multipliciter impensum considerantes necnon supplicacioni predicte fauorabiliter inclinati de gracia nostra speciali & ex certa sciencia nostra concessimus & licenciam dedimus & per presentes concedimus & licenciam damus eidem Germano quod ipse pro termino quinque annorum proxim' iam sequent' tociens quociens sibi placuerit duas naues cuiuscumque portagij existant seu quibuscumque nominibus censeantur ac mercandisas quascumque ad Stapulam nosram Cales' non pertinent' in eisdem nauibus carcand' vsque dictas partes de Island' & ffynmarch pro piscibus & aliis mercandisis quibuscumque ibidem perquirend' transmittere & traducere easdem que naues & earum alteram de piscibus & aliis mercandisis in eisdem partibus carcar' & illas naues sic recareatas in regnum nostrum Angl' adducere possit licite & impune absque impeticione pena seu deperdito eiusdem Germani aut aliquorum Magistrorum marinariorum seu mercatorum in nauibus predictis pro tempore existent' absque aliqua forisfactura nauium piscium & mercandisarum predictarum aut alicuius parcello eorundem aut aliquorum aliorum bonorum aut catallorum dicti Germani Magistrorum marinariorum aut mercatorum predictorum seu alicuius eorum colore seu vigore alicuius statuti ante hec tempora quouis modo editi seu alia de causa quacumque Eo quod expressa mencio de aliquo valore premissorum aut de aliis donis & concessionibus per nos eidem Germano ante hec tempora fact' non existit aut aliquo

Statuto actu ordinacione seu restricione incontrarium fact' non obstant' prouiso semper quod nobis de custumis subsidiis & aliis denariis nobis in hac parte debitis bene & fideliter respondeatur In cuius etc. T. R. apud Westm. vij die Maij

per ipsum Regem & de dat' predicta etc.

---

177. 16. maí 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi William, Wilelmusi Northalff' og Walterusi William þess efnis, að þeim leyfist að gera út ónafngreint skip, 70 lestir að stærð eða minna, í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Þeim leyfist að hlaða það alls konar varningi nema „stapúluvörum“ og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af viðskiptunum.

P.R.O., Rreaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 6.

Í þessum skýrslum er alloft getið um leyfisbréf til verzlunar erlendis án nokkurrar staðarákvörðunar eða takmarkana.

---

178. 16. maí 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Janys og Oliver Vasques þess efnis, að þeir megi gera út skipið „le George“ frá Selise, 30 lestir að stærð eða minna, og hlaða það öllu nema „stapúluvörum“, verzla frjálslega erlendis að Íslandi undanskildu, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af viðskiptunum.

P.R.O., Rreaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 6.

---

179. 26. júlí 1459. Coventry.

LEYFISBRÉF með sams konar formálum og nr. 165 veitt Johannesi Porte kaupmanni þess efnis, að hann

megi gera út tvö skip ónafngreind og af ótilgreindri stærð í þrjú ár frá Englandi til Íslands og Finnmerkur. Honum leyfist að hlaða þau öllu nema „stapúluvörum“ og flytja til sölu í Englandi varning, sem fæst í téðum löndum, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda skatta og tolla af vörunum.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 2.

---

**180. 1. ágúst 1459. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Bretnam kaupmanni þess efnis, að hann megi gera út skipið „le Jhc'“ frá Lynn, 60 lestir að stærð eða minna, í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Honum leyfist að ferma það alls konar vörum nema „stapúluvörum“, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 2.

---

**181. 13. ágúst 1459. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Bowyer kaupmanni þess efnis, að hann megi gera út ónafngreint skip, tvö hundruð lestir að stærð eða minna, í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Honum leyfist að ferma það alls konar varningi nema „stapúluvörum“ og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af viðskiptunum.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 7.

---

**182. 14. ágúst 1459. Windsor.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Thomasi Kent ritara í ráðinu (clerici consilij nostri) þess efnis, að hann megi gera út skipið „la Anne“ frá Lynn, hundr-

að lestir að stærð, í eitt ár til verzlunar við Íslendinga. Honum leyfist að hlaða það alls konar varningi nema „stapúluvörum“ og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af viðskiptunum.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 7.

---

183. 23. ágúst 1459. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Henricusi May, kaupmanni í Bristol, þess efnis, að hann megi gera út eitt skip ónafngreint, 300 lestir að stærð eða minna, í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu, svo fremi lög og tilskpanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/141, — 37. Henry VI., bl. 7. Útdráttur birtur í O.T.B. nr. 138. Sjá einnig nr. 133 hér að framan.

---

184. 9. nóvember 1459. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Shipward þess efnis, að hann megi gera út næsta ár ónafngreint skip, 400 lestir eða minna, til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru sams konar og áður greinir. (Sjá nr. 193.)

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 22. Útdráttur í O.T.B. nr. 139.

---

185. 19. desember 1459. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 132 veitt Johannesi Stokker frá Lundúnum þess efnis, að hann megi gera út ónafngreint skip, 300 lestir að stærð eða minna, í þrjú ár til Íslands og flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvarning“, en kaupa þar fisk nefndan „Stokfyssh“ og flytja óhindrað til Englands, svo fremi

lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 6.

---

186. 19. desember 1459. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Gaussem og Georgiusi Roche kaupmönnum þess efnis, að þeir megi gera út í sex ár ónafngreint skip, 400 lestir að stærð, eða tvö skip með sama burðarmagni samtals og halda því eða þeim til Íslands og Finnmerkur hlöðnum alls konar vörum nema „stapúluvarningi" og ferma þau þar og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af viðskiptunum. Leyfið gildir í 6 ár.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 21. Prentað í O.T.B. nr. 141.

Í marz 1461 var Hinriki VI. steypt af stóli og fá þeir félagar þá leyfið endurnýjað hjá Játvarði IV., sjá nr. 194 og 9 hér á undan.

De licencia versus partes Island'

Rex omnibus ad quos etc. salutem. Sciatis de gracia nostra speciali concessimus et licenciam dedimus ac per presentes concedimus et licenciam damus dilectis ligeis nostris Johanni Gaussem et Georgio Roche mercatoribus quod ipsi per se aut factores attornatos vel servientes suos quandam navem regni nostri Anglie portagii quadringentorum doliorum vel infra vel duas naves eiusdem portagii vel infra tociens quociens sibi placuerit durantibus presentibus litteris nostris cum bonis et mercandisis licitis quibuscumque ad Stapulam nostram Cales' minime pertinentibus carcare seu carcari facere et navem seu naves illas sic carcatas versus et usque quascumque partes Island' et ffynmarch' una cum Magistris et marinariis pro gubernacione navis seu navium predictarum competentibus traducere seu transmittere aut traduci seu transmitti facere, et terram illam

in quocumque portu sive quibuscumque portubus aut per quemcumque portum sive quoscumque portus eiusdem terre sibi placuerit ingredi et intrare ibidem que morari bona et mercandisas huiusmodi vendere ac alia bona et mercandisas quecumque ibidem emere, et cum eisdem navem sive naves predictas recarcare seu recarcari facere et eam vel eas sic recarcatas in regnum nostrum Anglie adducere seu adduci facere possint licite et impune et absque impeticione impedimento molestacione perturbacione seu gravamine quocumque nostri aut Officiariorum seu Ministrorum nostrorum quorumcumque, aliquo statuto actu ordinacione restriccione provisione seu mandato incontrarium facta ordinata seu provisa aut aliqua alia re causa vel materia quacumque non obstante. Proviso semper quod nobis de Custumis subsidiis et aliis denariis nobis pro bonis et mercandisis predictis debitis fideliter respondeatur ut est iustum. In cuius etc. per sex annos duratur'. Teste Rege apud Coventr' xix die Decembris.

per ipsum Regem et de data predicta etc.

---

187. 5. maí 1460. **Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Ricardusi Arnold þess efns, að hann megi gera út ónafngreint skip, 120 lestir að stærð, í fimm ár til viðskipta við Ísland og Finnmörku og flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur“ og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 6.

---

188. 6. maí 1460. **Coventry.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Thomas Napton, kaupmanni í Coventry, þess efnis, að hann megi gera út í tvö ár tvö skip, 300 lestir að stærð eða minni,

til verzlunar við Ísland og Finnmörku, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur“, en varning þar fáanlegan til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 12.

---

189. 14. maí 1460. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Ricardusi Ryvet, Karolusi Cristmas, Johannesi Holand og Johannesi Welles kaupmönnum þess efnis, að þeir megi gera út í tvö ár ónafngreint skip, 60 lestir að stærð eða minna, til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, bl. 6.

---

190. 1. júní 1460. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Thomasi Napton, fiskkaupmanni í Coventry, þess efnis, að hann megi gera út í 5 ár ónafngreint skip, 300 lestir að stærð eða minna, til Íslands og Finnmerkur, flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvarning“, en vörur þar fáanlegar til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 11.

---

191. 2. júní 1460. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Ricardusi Dorset þess efnis, að hann megi gera út ásamt öðrum enskum kaupmönnum ónafngreint skip, 200 lestir að stærð eða minna, í tvö ár til viðskipta við Frakkland, Acquitaníu og Ísland, flytja þangað alls konar varn-

ing nema „stapúluvörur", en varning þar fáanlegan til Englands. Þeir mega verzla óhindrað, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 9.

---

192. 20. júní 1460. Coventry.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Robertusi Duklond, kaupmanni frá Calais, þess efnis, að hann megi gera út ónafngreint skip, 100 lestir að stærð, í eitt ár til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/142, — 38. Henry VI., bl. 11.

---

193. 22. júlí 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Shipward kaupmanni þess efnis, að hann megi sigla skipinu „Julian" frá Fowey, 160 lestir eða minna, innan 6 mánaða frá Íslandi til Englands. Hann gerði það út frá Bristol til Íslands hlaðið alls konar vörum í krafti leyfisbréfs, sem Hinrik VI. veitti honum, en á Íslandi var skipið hlaðið öðrum vörum alldýrmætum. (Sjá nr. 184.)

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 27. Útdráttur birtur í O. T.B., bls. 125. Skipið Julian lenti í Bristol 25. ágúst 1461, en í tollaskýrslum er talið, að það komi frá Björgvin. Talið er, að sú staðarákvörðun sé sprottin af því, að stjórnarskipti urðu í Englandi, meðan skipið var við Ísland; Játvarður IV. var krýndur í London 28. júní um sumarið, en kaupmenn þeir, sem voru með skipinu, hafi ekki vitað um, að útgerðarmennirnir höfðu fengið leyfi til Íslandssiglingar hjá nýja konunginum. Sama er að segja um tvö önnur skip, sem lenda einnig í Bristol þann 25. ágúst; sjá nr. 9.

De licencia traducendi Shipward.

Rex Omnibus ad quos etc. salutem. Sciatis quod cum Johannes Shipward mercator quandam nauem

vocatam la Juliane de ffowy portagij centum & sexaginta doliorum vel infra diuersis bonis & mercandisis non modici valoris Stapule nostre Calcsii non pertinentibus nuper in portu nostro ville Bristoll' vigore quarundam literarum patencium Henrici sexti nuper de facto & non de iure Regis Anglie eidem Johanni vicesimo secundo die Nouembris Anno ipsius nuper vt premittitur Regis ticesimo octauo per biennium duratur' factarum & concessarum carcaverit & eandem nauem sic carcatam vna cum magistro & marinariis pro gubernacione eiusdem nauis competentibus vsque terram Island' traduxerit & nauem predictam ibidem discarcauerit & eam cum aliis bonis & mercandisis ad valorem non modicum inibi recarcauerit & in dictum regnum Angl' reducere iam proponat vnde idem Johannes nobis supplicauit vt sibi licenciam nostram regiam quod ipse aut factores siue attornati sui nauem predictam infra dimid' annum in quemcumque portum regni nostri predicti reducere seu reduci facere & nauem illam ibidem de bonis & mercandisis in ea existent' discarcare possit licite & impune Nos certis consideracionibus in hac pare moti de gracia nostra speciali licenciam predictam tenore presencium duximus concedend' Nolentes quod prefatus Johannes aut magister seu marinarij predicti ratione premissorum molestentur impetantur in aliquo seu grauent' molestetur impetatur in aliquo seu grauetur In cuius etc. T. R. apud Westm. xxij Julij

per ipsum Regem oretenus.

---

194. 23. júlí 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 185 veitt Johannesi Gaussem og Georgiusi Roche kaupmönnum þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár ónafngreint skip, 400 lestir að stærð eða minna, eða tvö skip með sama burðarmagni, til verzlunar við Ísland og Finnmörku, flytja á því eða þeim alls konar varning nema „stápúluvörur“,

en vörur þar fáanlegar til Englands og verzla frjálslega svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 29. Útdráttur birtur í O.T.B., bls. 125. Þar telur Carus-Wilson, að þetta leyfi hafi sennilega verið fengið sökum tveggja skipa, sem voru einmitt um þessar mundir við Ísland í leyfi Hinriks VI., sem nú hafði verið steypt af stóli. Sjá nr. 9. — Hinn nýi konungur, Játvarður IV., var mjög örlátur á verzlunarleyfi fyrst eftir valdatökuna, enda hefur það verið hagkvæmt honum að launa á þann hátt stuðningsmönnum sínum. Nokkur þessara leyfa hljóða upp á frelsi til verzlunar, hvar sem er. Carus-Wilson telur í O.T.B., bls. 125, að hann hafi að minnsta kosti veitt 16 skipum leyfi til Íslandssiglingar síðari hluta árs 1461, en ekki hefur útgefanda þessa safns tekizt að ganga úr skugga um, að sú staðhæfing sé rétt.

---

195. 31. júlí 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Bagot,[1] kaupmanni í Bristol, þess efnis, að hann megi gera út sex næstu mánuði skipið „Julan“ frá Bristol til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15. Útdráttur í O. T. B., bls. 12.

---

196. 27. nóvember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Nicholausi Laurence og Johannesi Hanson kaupmönnum þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár eða til 1. sept. næstkomandi ónafngreint skip, 40 lestir að stærð eða minna, til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15.

---

1) Johannes Bagot var borgarstjóri í Bristol árin 1476 og ’77.

197. 28. nóvember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 163 veitt Johannesi Curteys skreiðarkaupmanni og Thomasi Etton' kaupmanni þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár tvö skip, hvort 200 lestir að stærð, til verzlunar við Íslendinga, þar eð þeir hafa lagt fram í kansellíinu einkabréf frá konunginum í Danmörku, en þau heimila hans heilagleika Marcellusi Skálholtsbiskupi að veita enskum þegnum, sérstaklega frá Hull, leyfi til þess að verzla við Íslendinga á fjórum skipum af ótilgreindri stærð frá 25. marz 1456 til 29. sept. 1463. Í krafti þessarar heimildar hefur biskup veitt J. Curteys siglingaleyfi og sérstakt leyfisbréf til þess að reka verzlun, hvar sem er á Íslandi, frá tveimur skipum, en sökum laganna frá 8. ríkisstjórnarári Hinriks VI. þorir Curteys ekki að notfæra sér þessar heimildir án leyfis Englakonungs. Konungur veitir honum siglinga- og verzlunarleyfi að því tilskildu, að hann flytji ekki „stapúluvörur" og krenki hvorki lög né tilskipanir, sem öðruvísi kunna að mæla fyrir. Einnig ber honum að greiða skylda tolla og skatta.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15.

---

198. 30. nóvember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og 163 veitt Johannesi Shypward þess efnis, að hann megi gera út eitt skip, 240 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Íslendinga, þar eð hann hefur lagt fram í kansellíinu einkabréf frá konungi Danmerkur, en þau heimila hans heilagleika Marcellusi Skálholtsbiskupi að veita enskum þegnum, sérstaklega frá Hull, leyfi til þess að verzla við Íslendinga (o. s. frv., sbr. nr. 197 hér að framan). Í krafti þessarar hemildar hefur biskup veitt Shypward siglingaleyfi og sérstakt leyfisbréf til þess að reka verzlun, hvar sem er á Íslandi, frá tveimur skipum (o. s. frv.).

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15. Prent-

að í O.T.B., bls. 127—'29. — Um skjalið segir Carus-Wilson: „Þetta leyfi er sennilega annaðhvort veitt hinum þekkta kaupmanni í Bristol (Johannesi Shypward), sem reisti St. Stephens turninn, eða syni hans.

---

199. 30. nóvember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 163 veitt Johannesi Bagot og Johannesi Poweke þess efnis, að þeim leyfist að sigla til Íslands með öllum sömu skilyrðum og skilmálum og Johannes Shypward, en mega hafa sitt skipið hvor í förum.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV. bl. 15. Útdráttur birtur í O.T.B., bls. 129. — Tveimur árum síðar er Bagot veitt sýkna fyrir að verzla í heimildarleysi við Ísland; sjá nr. 204.

---

200. 1. desember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Thomasi Symon og Johannesi Megyr kaupmönnum þess efnis, að þeir megi gera út til 1. júlí næstkomandi ónafngreint skip, 60 lestir að stærð eða minna, til verzlunar erlendis að Íslandi undanskildu. Formálar eru samhljóða þeim, sem áður greinir.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15.

---

201. 1. desember 1461. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Walsh, kærum þjóni konungsfrændans, Richards jarls af Warwick, þess efnis, að hann megi gera út í eitt ár, 300 lesta skip, eða tvö, 150 lestir hvort eða minni, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur", en vörur þar fáanlegar til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og statútur

mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 15.

---

**202.** **10. desember 1461.** **Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 185 veitt Thomasi Napton, fiskkaupmanni í Coventry, og Johannesi Hawkes, kaupmanni frá Bristol, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár tvö ónafngreind skip, 400 lestir að stærð eða minni, til verzlunar hvar sem er á löndum vorum Íslandi og Finnmörku („versus & vsque quacumque partes terre nostre Island' & ffinmarche"), flytja þangað alls konar varning nema stapúluvörur, en þar fáanlegar vörur til Enlands og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/145, — 1. Edward IV., bl. 10. Útdráttur prentaður í O. T. B., bl. 130.

Fiskkaupmenn í Coventry ráku talsverða verzlun við Ísland ýmist um Bristol eða Boston, eins og sést af Memoranda Rolls (nr. 92 hér að framan). Einnig er Th. Naptons getið í leyfisbréfum nr. 188, og tveir menn, fæddir á Íslandi, eru í Coventry samkvæmt skjali nr. 226 hér á eftir. Sjá einnig leyfi Johannesar Bristowes D. I. IV., nr. 597 og bls. 269 í þessu hefti, S. E. T. bls. 168, 169, 174 og O. T. B., bls. 130.

---

**203.** **16. febrúar 1463.** **Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 163 veitt Jóhannesi Shipward, kaupmanni í Bristol, þess efnis, að hann megi gera út í eitt ár ónafngreint skip, 180 lestir eða minna, til Íslands í krafti leyfisbréfs, sem hann hefur fengið hjá Marcellusi, biskupi í Skálholti, en Danakonungur hefur veitt biskupi þessum heimild til þess að veita enskum þegnum, sérstaklega frá Bristol, slík siglingaleyfi handa fjórum skipum á tímabilinu frá 25. marz 1456 til 29. september 1463. Skjal þetta er að mestu

samhljóða skjalinu nr. 163 að öðru leyti en því, að í þessu stendur Bristol, þar sem Hull er nefnd í hinu fyrra.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/146, — 2. Edward IV., bl. 1. Útdráttur birtur í O. T. B., bls. 130.

---

204. 20. júní 1463. Westminster.

NÁÐUNARBRÉF veitt Johannesi Bagot, kaupmanni í Bristol, en þar er hann sýknaður af öllum brotum gegn lögum frá 8. ríkisstjórnarári Hinriks VI. um siglingar til ríkis Danakonungs, en þar er ákveðið, að enginn af þegnum konungs skuli sigla til annarra staða en Björgvinjar í umræddu konungsríki til þess að afla fisks eða annars varnings.

Prentaður útdráttur í C. P. R., 1461—'67, bls. 286.

Þann 8. júlí 1463 gefur Kristján I. út bréf til Íslendinga um sekkjagjöld, birtingu stefna og dóma og vígsbætur, en þar segir m. a.: „Eg gjöri yður vitanlegt, að oss er til vitanda orðið, að vor og krúnunnar réttugheit mjög forminnskast og fyrir kemur í því, að margir af yður kaupslaga við útlenzka kaupmenn fyrr en þeir útgefið hafa þeirra sekkjagjöld; því forbjóðum vér öllum að kaupa við útlenzka kaupmenn, fyrr en þeir útgefið hafa fyrrnefnd þeirra sekkjagjöld, sem gamall siðvani verið hefur. Hver hér á móti gjörir, hefur forbrotið það góss, sem hann kaupir eða svo góða peninga og viii ortog og xiij merkur í bréfabrot". (D. I. V. b. nr. 334.)

---

205. 20. marz 1464. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 163 veitt Johannesi Curteys, skreiðarkaupmanni frá Lundúnum, þess efnis, að hann megi gera út, meðan leyfið gildir, skipið „la Anne", 300 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Íslendinga. Leyfið er veitt á sömu forsendum og áður, að Marcellus Skálholtsbiskup hefur veitt Jóhannesi siglingaleyfi o. s. frv.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/148, — 4. Edward IV., bl. 2.

---

206. 13. júní 1464. Middleham.

GJAFABRÉF konungs veitt Johannesi, jarli af Norðymbralandi frænda hans, en samkvæmt því gefur konungur honum skipið Antony frá Hull. Johannes Curtays, skreiðarkaupmaður í Lundúnum, og aðrir ókunnir kaupmenn gerðu það út til Hafnarfjarðar á Íslandi í trássi við lög frá 8. ríkisstjórnarári Hinriks VI. um siglingar til landa í ríki Danakonungs.

P.R.O., Patent Rolls, C. 66/509, — 4. Edward IV., II. hl. bl. 12. Útdráttur birtur í enskri þýðingu í C. P. R., London 1897, bls. 378.

Per Johanne Counte Northumb'

Rex omnibus ad quos etc salutem. Monstrauit nobis carissimus consanguineus nostri Johannes Comes Northumbr' quod in statuto in parliamento quod in Hinrici sexti nuper de facto & non de iure Regis Anglie apud Westm. Anno regni sui octauo tent' edito inter cetera contineatur nequis ligeorum suorum aliqua terras dominia territoria Insulas aut alia loca Regis Dacie Norwegie & Swecie cum aliqua naui aut eskippacione quarumcumque mercandisarum causa optinendi vel habendi quascumque pisces & alias mercandisas infra Insulas ffynmarchie & Islandie ausu temerario ingredi presumat sub pena forisfactur' omnimod' bonorum suorum mobilium & imprisonamenti corporis sui ad voluntatem regiam prout in statuto predicto plenius continet' Iamque intelleximus quod quidam Thomas Patryngton nuper de villa de Kyngeston' super Hulle & Johannes Curteys de London' Stokfysshmonger vna cum aliis mercatoribus ignotis propria auctoritate & ausu temerario quandam nauem vocatam le Antony de Kyngeston' super Hulle (certis bonis & mercandisis a dicto portu de Kyngeston super Hulle[1]) vsque quendam locum in Islandia vocatum Habnefort alias dictum Hanforth traducend' carcarunt & onustarunt contra formam ordi-

1) Ofan línu.

nacionis prohibicionis & interdiccionis statuti predicti & in nostri contemptum preiudicium & derogacionem manifesta. Nos premissa considerantes de gracia nostra speciali dedimus & concessimus ac per presentes damus & concedimus prefato consanguineo nostro nauem predictam ac omnia mercandisas in eadem contenta necnon omnia alia nobis occasione predicta qualitercumque forisfact' siue forisfacend' habend' de dono nostro speciali absque aliquo compoto ratiocinio seu aliquo alio nobis inde aliqualiter faciend' siue reddend' eo quod expressa mencio de vero valore nauis bonorum mercandisarum & ceterorum premissorum aut de aliis donis siue concessionibus prefato consanguineo nostro ante hec tempora factis in presentibus facta non existit. Aut aliquo statuto actu ordinacione seu prouisione incontrarium fact' seu ordinat' aut aliqua alia re causa vel materia quacumque non obstant' In cuius etc. T. R. apud Middelham xiij die Junij

per ipsum Regem & de data predicta etc.

---

207. 7. janúar 1465. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 163 veitt Johannesi Curteys, skreiðarkaupmanni frá Lundúnum, þess efnis, að hann megi gera út á þessu ári eða til Mikjálsmessu 1465 skipið „le Trinite Copyndale“ frá Hull, 200 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Íslendinga. Leyfið er veitt á sömu forsendum og áður, að Marcellus Skálholtsbiskup hefur veitt Johannesi siglingaleyfi samkvæmt heimild frá Danakonungi að veita enskum þegnum, sérstaklega frá Hull, leyfi til þess að reka verzlun við Ísland á fjórum skipum af ótilgreindri stærð frá 25. marz 1456 til 29. sept. 1464, o. s. frv.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/148, — 4. Edward IV., bl. 4.

---

208. 23. febrúar 1465. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 176 veitt Johannesi greifa af Norðymbralandi, konungsfrænda, þess efnis, að gera út í eitt ár skipið Antony frá Hull, 450 lestir að stærð eða minna, til verzlunar hvar sem er á Íslandi, flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvarning", en þar fáanlegar vörur til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/148, — 4. Edward IV., bl. 24.

---

209. 22. marz 1465. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 152, en skildagar þeir sömu og í nr. 165 að því undanskildu, að hvergi er minnzt á Finnmörku, veitt Johannesi Hadilsay, Johannesi Richard og Wilelmusi Odlyn, enskum kaupmönnum, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár skipið „Trinite Clyfford", 300 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Íslendinga. Leyfið er veitt á þeim forsendum, að Kristján I. Danakonungur hefur veitt þeim félögum heimild þann 10. jan. 1462 til þess að sigla einu skipi í fjögur ár til Vestmannaeyja við landið eða eyjuna Ísland eða annarra staða á téðri eyju eða landi, („velare vnam nauem oneris cuiuscumque vellent de dicto regno nostro Anglia ad Insulam vocatam Westmaneor infra eadem terram siue Insulam").

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/149, — 5. Edward IV., bl. 19.

---

210. 3. október 1465. Hamborg.

FRIÐAR- og griðasamningur Kristjáns I. Danakonungs og Játvarðar IV. Englakonungs, en þar er í fyrsta lagi saminn tveggja ára friður milli ríkja þeirra, í öðru lagi gagnkvæm samskipti og samgöngur skulu haldast, í þriðja lagi krefst Danakonungur, að Englending-

ar greiði Eyrarsundstollinn refjalaust, en Játvarður fellir þá klausu úr samningnum; í fjórða lagi skulu Englendingar ekki sigla til Íslands án leyfis Danakonungs og hvorki til Hálogalands né Finnmerkur, nema þeir lendi í hrakningum og hafvillum, en þá mega þeir ekki reka þar neinn kaupskap; auk annars, sem samningurinn greinir.

Frumrit að samningi þessum er á skinni, varðveitt í Ríkisskjalasafni Dana í Kaupmannahöfn, R. A. England. A. 465, prentað í N. gl. L. II. R., II. 1. nr. 100, og er það með innsiglum ensku samningamannanna fimm. — Annað eintak er varðveitt í P. R. O., French rolls, 6. Edw. IV. bl. 14, prentað í Rymer Foedera, Tom. XI. bls. 551—'56 og D. C. I. nr. 124, og er það með innsigli Játvarðar IV. Nokkur orðamunur er á þessum skjölum, en veigamesti munurinn er sá, að enska gerðin sleppir 3. grein samningsins alveg, en hún fjallar um Eyrarsundstollinn. Samkvæmt því virðist Játvarður aldrei hafa samþykkt þá klausu, en hann staðfestir samninginn í Westminster 1. marz og aftur 20. nóvember 1466. Nú segir í Danmerkur króniku A. Hvitfeldts, að Kristján hafi afturkallað öll siglingaleyfi, sem hann hafði veitt Englendingum, 28. júlí 1466. Sú afturköllun hlýtur að orsakast af því, að honum hafi virzt, að Englendingar héldu ekki samninginn eða Játvarður hefur tregðazt við að samþykkja hann. En hvernig sem því er háttað, þá er auðséð, að samningurinn hefur mætt allmikilli mótspyrnu í Englandi og enskir kaupmenn og sæfarar hafa verið ákveðnir að þreyta kapp við dansknorsku stjórnina. — Einnig ber að veita því athygli við samning þennan, að hér er í fyrsta sinn við samningsgerð skilið á milli Íslands annars vegar og Finnmerkur og Hálogalands hins vegar. Hingað til hafði Ísland verið talið skattland norska ríkisins á sama hátt og Finnmörk og sömu ákvæði látin gilda um verzlun útlendinga í báðum löndunum. En þróun málanna hafði orðið sú, að verzlun Englendinga óx stöðugt hér við land, en þeir hættu smám saman að sigla til Finnmerkur. Skreiðarverzlun Noregs komst því algjörlega í hendur Hansasambandsinu, sem réð fiskmarkaði á meginlandi Evrópu, en ensku kaupmennirnir keyptu íslenzku skreiðina til neyzlu í Englandi, en þar höfðu Hansamenn aldrei ráðið skreiðarmarkaðinum. Enska skreiðarverzlunin var því að mestu fyrir utan hagsmunasvið Hansasambandsins. Af þessum sökum viðurkennir það og dansknorska stjórnin þá staðreynd, að Ísland hafi sérstöðu innan norska ríkisins, og leyfir, að Englendingar sigli þangað að fengnu leyfi, eins og tíðkazt hafði, en bannar með öllu siglingar Englendinga til Hálogalands og Finnmerkur. Með þessum

samningi er því viðurkennt, að Ísland lúti ekki framar verzlunarákvæðum aðalstöðvarinnar í Björgvin. A. Ræstad: Kongens Strömme, Kria 1912, bls. 79—81, S. Hasund: Det Norske Folks Liv og Historie, III. b. bls. 287.)

Samningsskjölin hefjast á erindisbréfum samningamanna; þann 11. júní 1465 gefur Játvarður út í Westminster erindisbréf til handa þeim Jacobusi Goldwell djákna af Salsbury, Johannesi Cheyne riddara, Henricusi Sharp lögspekingi (legum doctor prothonotarius noster) og Walterusi Cony og Henricusi Bermycham, kaupmönnum frá Biskups Lynn, — og veitir þeim umboð til þess að semja við fulltrúa Danakonungs. Aðild kaupmanna frá Lynn bæði að þessari og síðari samningagerðum sýna hverra hagsmuna Lynnverjar eiga að gæta í þessum málum.

Þann 19. sepember 1468 gefur Kristján I. út í Segeberghe erindisbréf til handa þeim: Knúti biskupi í Viborg, Eiríki Ottóssyni riddara, Edgardi Ffrille riddara, Johannesi Tydericssyni (Tyderici) meistara og bakkalaureusi í theologiu og Iwari Wikingi, kanslara Noregs — til þess að semja við fulltrúa Englandskonungs.

Þessi umboðsbréf fylgja bæði ensku gerð samningsins og eru því prentuð í Rymer Foedera, Tom. XI. bls. 551—'55 og D. C. I. 163—67, en stytt í dönsku gerðinni, prentuð í N. gl. L., II. R. II. 1. bls. 155—56. Sjá einnig: Forty-Fifth Annual Report of the Deputy Keeper of the Public Records, London 1885, Apendix II. bls. 15.

Hér er þessum umboðsbréfum sleppt, en samningurinn birtur í heild, af því að með honum er viðurkennd sérstaða Íslands innan norska ríkisins og í hönd fara mikil tiðindi. (Útdráttur samningsins prentaður í D. I. V. nr. 400.)

Pacis amiciciarum confederaciones vniones et ligas reales firmas et perpetuas post varias per nonnullos dies communicaciones habitas iniuimus contraximus et conclusimus, sicut et tenore precencium inimus contrahimus et concludimus, et super eisdem conuenimus sub hac forma.

1) In primis concordatum est, quod lige, confederaciones et amicicie inter prefatos reges (inclinissimos) quoad uixerint absque violacione omnimoda perseuerent. Cum autem eorum aler e vita excesserit, nichilominus lige confederaciones ipse et amicicie vsque ad biennium a die obitus regis illius irreuocabilier permanebunt; et eciam post biennium ipsum, donec per ali-

quem de regnorum illorum regibus expresse ac legitime fuerint reuocate.

2) Item omnes gentes vtriusque regni vicissim per mare, flumina, aquas dulces et salsas quascumque nauigare, portus, regna, terras et dominia intrare ac in omnibus et omnimodis portubus ciuitatibus et villis regnorum, terrarum et dominiorum predictorum ac cum quibuscumque hominibus, cuiuscumque nacionis ritus seu condicionis fuerint, mercandisare poterunt solutis custumis et theolonis[1]) solui consuetis.

[3) Item dominus rex Dacie etc. in castro suo Kroghen capitaneum preficiat probum et discretum, qui aduentantes illuc Anglicos et consuetum soluentes theoloneum vel tantundem tractet humaniter et benigne, et tunc Anglici non nauigabunt per Belt in preiudicium regis Dacie aut grauamen.][2])

4) Item quod dominus rex Anglie[3]) prouideat, ne subditi sui ad terram seu in terra Izlandie absque speciali licencia domini regis Norwegie petita et obtenta vllatenus nauigent, accedant seu intrent in preiudicium domini regis Norwegie sub pena amissionis vite et bonorum, [sicut eciam in allegancijs alijs contractis inter reges Norwegie et Anglie est satutum][4]) nec eciam ad Halgalandiam seu Ffindmarkiam, nisi Anglicos illos euidens maris periculum aut tempestatum impulsus accedere vel intrare coegerit,[5]) vbi tunc minime ipsis[6]) mercandisare licebit.

5) Item omnes mercatores et subditi domini regis Anglie in regnis terris et dominiis regis Dacie et Norwegie ac viceversa mercatores omnes et subditi domini regis Dacie et Norwegie in regnis et dominiis domini regis Anglie, omnibus et singulis priuilegiis libertatibus

1) thelonis i D. C. I. bls. 167.
2) Þessi klausa er ekki i ensku afskriftinni.
3) Enska afskriftin: Item, serenissimus Rex Anglie.
4) [ ] vantar i ensku afskriftina.
5) coegit, enska afskriftin.
6) ipsas, e. a.

franchesiis et liberis consuetudinibus vti plene debeant et gaudere, prout vsi sunt ante hec tempora et gauisi.

6) Item neuter dictorum regum aut subditorum eorumdem inimicis partis alterius prestabit auxilium quouis modo.

7) Item si futuris temporibus vnus regum predictorum alterius auxilio vel succursu indigeat, et pro huiusmodi auxilio habendo alium regem debite se requisierit, pars requisita huiusmodi auxilium vel succursum parti requirenti, si et quatenus propter occurrencia sibi, regnis, terris et dominiis ac subditis suis pericula hoc facere poterit, cessandibus dolo et fraude seu friccione quibuscumque, facere tenatur, requirentis tamen racionabilibus sumtibus et expensis prout inter dictos reges vel eorum deputatos seu consilia poterit concordari, prouiso semper quod requisicio huiusmodi fiat per sex menses, antequam execucioni demandetur.

8) Item si vnius regis gentes in succursum venerint regi alteri et in eius regno seu dominijs castra, civitates aut terras adquisierint, bona [ista[1]) immobilia illi cedant regi, in cuius regno aut dominijs fuerint adquisita, bona vero mobilia in regno ipso aut dominijs conquisita, insuper et bona tam mobilia quam immobilia in locis non ad predictos reges pertinentibus adquisita, diuidentur secundum capita populorum existencium in conflictu, exceptis bonis captis hostiliter supra mare, quorum[2]) pars tercia regi, qui fecerat[2]) expensas, applicabitur.

9) Item vnus regum predictorum contra alium non debet inferre, nec inferri consenciet, nec procurabit vllo tempore alteri ligeis subditis suis hominibusque quibuscumque dampnum aliquod in personis seu rebus; et presertim quod vnus non permittat subditos suos ad vadia vel stipendia sua propria vel alterius transire in obsequium auxilium[ve[3]) contra alium regna, terras, possessiones aut dominia eorum quecumque.

1) Vantar í ensku gerðina.
2) quarum, enska gerðin, fecerit, sama.
3) vel, enska gerðin.

10) Item neuter ipsorum regum, si diffidauerit aliquos propter alterum, treugas cum diffidatis capiat, nisi alter rex regna sua, terre et dominia sua comprehendantur.

11) Item presentibus ligis et confederacionibus durantibus vterque regum predictorum heredes et successores ac eorum subditi omnes et singuli ab omni et omnimodo prosecucione iniuriarum et dampnorum, si que fuerint ante datam presentium illatorum aut perpetratorum hincinde penitus supersedebunt et abstinebunt; liga vero finita seu, quod absit, quouis modo dissoluta, prosecucione predictorum dampnorum et iniuriarum, si que fuerint, vt premittitur, vtrique parti semper salva.

12) Item si temporibus futuris contigerit, quod absit, quod aliquid contra presentes alligancias per subditum vel subditos alterius regum predictorum heredumve suorum contra alium per aliquas incurciones(!), inuasiones, depredaciones, derobaciones, personarum, nauium[1]) seu rerum capciones seu detentaciones vel quouis alio modo attemptatum fuerit vel quomodolibet iniuriatum, rex[2]) ille, cuius subditi taliter attemptauerint vel iniurias fecerint, et heredes sui, pro tempore existentes teneantur et quilibet eorum tempore suo teneatur, iusticia mediante ad statum debitum attemptata huiusmodi reducere ac delinquentes debiti corrigere et punire cum omni celeritate possibili et ad minus infra annum, postquam super reformacione et punicione huiusmodi fiendis, probatis probandis, debite fuerint requisiti vel eorum aliquis inde fuerit requisitus, fraude, dolo, dilacione et malicia cessantibus quibuscumque, prouiso semper quod presentes alligancie pro tanto non cenceantur seu habeantur in aliquo fracte, dissolute seu irrite, set semper in suo robore permaneant et virtute. Ulterius[3]) pro conseruacione dictarum

1) manium, enska gerðin.
2) quod rex, sama.
3) Et ulterius, enska gerðin.

alliganciarum forcius ordinatum existit, quod si per aliquem vel aliquos subditorum dictorum regum contra aliquem articulum de predictis seu contra omnes simul vel separatim quouis modo attemptari contigerit, nichilominus presentes alligancie, confederaciones et lige in suis firmitate et robore permanebunt et durabunt. Et sic attemptata iusticia mediante, vt premissum est, reparabuntur. — Acta sunt hec omnia, prout supra scribuntur, in ciuitate Hamborgensi anno Domini millesimoquadringentesimosexagesimoquinto die tercio mensis octobris. — In quorum omnium et singulorum euidens testimonium nos suprascripti Jacobus, Johannes, Henricus, Walterus et Henricus sigilla nostra presentibus appendi fecimus.

(Við sjalið hanga fimm innsigli, mótuð i rautt vax.) Á baksiðu stendur með um það bil samtíðarhendi: Litera legatorum Edwardi regis Anglie de pace conclusa in Hamborg anno etc. sexagesimo quinto.

---

**211. 30. desember 1465. Cawode.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 176 veitt Thomasi Patryngton, Thomasi Alcok og Wilelmusi Brompton, kaupmönnum frá Kyngeston við Hull, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár skipið „la Anne“ frá Hull, 250 lestir eða minna, til verzlunar við Íslendinga. Leyfið veitir konungur án undanþágu Kristjáns I. með öllum sömu formálum og um getur í nr. 164.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/149, — 5. Edward IV., bl. 8.

---

**212. 5. janúar 1466. Cawode.**

LEYFISBRÉF að öllu samhljóða nr. 209 veitt Johannesi Hadilsay og félögum hans til að gera út skipið „Trinity Clyfford“ til verzlunar við „Westmaneor“ (Vestmannaeyjar) o. s. frv.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/149, — 5. Edward IV., bl. 7.

---

213. 10. febrúar 1466. Westminster.

LEYFISBRÉF veitt Johannesi Forster og Johannesi Swancot, kaupmönnum frá Bristol, þess efnis, að þeir megi gera út skipið „le Antony“, 300 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvörur“ og kaupa þar fiska og annan varning, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni. Leyfið er veitt í krafti þess, að Forster hefur lagt fram í kanselliinu siglingaleyfi frá Danakonungi, en þar veitir hann honum og öðrum enskum þegnum singlingaleyfi á einu skipi til Íslands í fjögur ár frá 10. janúar síðastliðnum að telja.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/149, — 5. Edward IV. bl. 5. Útdráttur birtur í O.T.B. bls. 135—36. Formálar bréfsins eru svipaðir og í 165, nema hvergi er minnzt á Finnmörku. Antony lagði til Íslands 18. apríl, sjá nr. 13 hér á undan.

Þann 1. marz 1466 staðfestir Játvarður IV. samninginn frá 3. okt. 1465, en sú staðfesting hefur ekki verið talin fullnægjandi, eins og síðar kemur fram. (Forty-Fifth Annual Report of the Deputy Keeper, London 1885, Appendix II. bls. 5.)

---

214. 6. marz 1466. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Shipward yngra, Johannesi Swancote og Johannesi Fawene, kaupmönnum, þess efnis, að þeir megi sigla ónafngreindu skipi, 60 lestir að stærð eða minna, til verzlunar að Íslandi undanskildu. Formálar eru þeir sömu og áður greinir. Leyfið gildir til 1. marz 1467.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/150, — 6. Edward IV. bl. 21. Útdráttur birtur í O. T. B., bls. 136.

Þann 28. júlí 1466 afturkallar Kristján I. öll þau siglingaleyfi, sem hann hafði veitt Englendingum til Íslandsferða (D. I. XI. nr. 19.) — Með þessu tiltæki segir hann upp griðasamningnum frá 3. okt. 1465, og er uppsögnin sennilega sprottin af því, að Játvarður staðfestir hann ekki óbreyttan og veitir enskum kaupmönnum siglingaleyfi til Íslands upp á sitt eindæmi. StaðfestingJát-

varðar á samningnum þann 20. nóv. 1466 (sjá hér á eftir) breytir engu um sambúð ríkjanna, því að þar er fellt niður veigamikið atriði, sem Danakonungur krefst, að sé haldið, ef ekki eigi að draga til friðslita.

---

215. 14. nóvember 1466. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 152 veitt Johannesi Forster og Johannesi Swancot, kaupmönnum frá Bristol, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár skipið „le Antony“, 300 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Íslendinga. Leyfið er veitt á sömu forsendum og nr. 185.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/150, — 6. Edward IV., bl. 15. Útdráttur birtur í O. T. B., bls. 136.

---

216. 20. nóvember 1466. Westminster.

JÁTVARÐUR IV. staðfestir samninginn frá 3. október 1465, þó með úrfellingum. (Sjá nr. 211.)

P.R.O., Frence Rolls, 6. Edward IV., bl. 14. — Prentað í Rymer Foedera, Tom. XI., bls. 556 og D. C. I. bls. 169.

Nos autem, ligas, confederaciones et amicicias predictas, per prefatos nostros ambasiatores, commissarios, procuratores, deputatos, et nuncios, in forma predicta initas, contractas, et conclusas, pro parte nostra firmiter obseruari volentes, easdem ligas, confederaciones, et amicicias, ac omnia et singula in eisdem contenta, rata habentes et grata, pro nobis, heredibus, et successoribus nostris, iuxta vim, formam, et effectum earumdem, acceptamus, approbamus, ratificamus, et tenore presencium, confirmamus, easque, pro nobis, ligeis, et subditis nostris, tante esse virtutis et vigoris, ac tenori et obseruari volumus, ac si eas in persona nostra fecissemus contraxissemus, et conclucissemus. In cuius rei testimonium has literas nostras fieri fecimus paten-

tes, teste me ipso, apud Westmonasterium xx Nouembris, [anno regni nostri sexto.][1]) (per ipsum regem.) (Innsigli konungs skaddað.)

---

217. 7. febrúar 1467. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 175 veitt Nicholausi Elys, kaupmanni frá Kyngeston við Hull, og Edwardusi Gower riddara þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár skipið „le Antony" frá Hull, 450 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland. Leyfið veitir konungur án heimildar frá Kristjáni I. með öllum sömu formálum og um getur í nr. 165.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/150, — 6. Edward IV., bl. 3.

Í september 1467 lenda farmenn frá Lynn í Englandi við Ísland, drepa þar hirðstjórann á grimmilegan hátt, hafa lík hans með sér á skipsfjöl og varpa því í sjóinn, en ræna konu hans, börn og fólk gulli, silfri, klæðum, gripum og öðru, brenna bæi og byggingar, taka skatta, sem konungi höfðu safnazt á löngum tíma, og brenna og ræna víða um land (D. I. X. nr. 22.) Þetta konungsbréf er eina samtímaheimildin um víg Björns Þorleifssonar. Hann kemur síðast við bréfagerðir, að því er vitað er, 26. júní 1467 (D. I. V. nr. 433), en virðist dáinn 6. sept. 1467 (D. I. V. nr. 434 og bls. 497—99.)

Hér er ekki um algjörlega einstæðan atburð að ræða á þessu ári, því að í skýrslu um ófrið, sem nú hófst milli Englendinga annars vegar og Hansakaupmanna og Dana hins vegar frá haustinu 1468 segir, að kaupmenn frá Lynn og Boston hafi sent tvö skip til Björgvinjar, en Þjóðverjar á staðnum réðust á þá og særðu 14 þeirra og hindruðu verzlun þeirra við Norðurfarana, en Englendingar voru áður vanir að skipta við þá, og urðu þeir frá að hverfa við svo búið. Í skýrslunni segir á þennan hátt: „Memorandum, quod ubi in anno ultimo elapso diversi mercatores de Lynne et Bostoone miserunt duas naves cum mercandisis ad Northborne sub salvo conductu regis Dacie causa vendendi ibidem mercandisas suas et emendi fungeam et oleum et alias mercandisas oleum etc., Theutonici tunc ibidem existentes ea de causa, ut haberent forum ad singularem utilitatem suam, irruerunt in mercatores Anglicos et graviter verberaverunt et vulneraverunt 14 eorum et noluerunt permittere eos commercari cum

---

1) D. C. I.

Northfares, sicut antefecerunt, et sic Anglici reduxerunt magnam partem mercandisarum suarum et quasdam mercandisas ibi dimiserunt invenditas. Et quidam mercatores Anglici adhuc remanent ibi, et quando Anglici volebant prosequi pro remedio penes consulatum, dicti Theutonici voluerunt ipsos occidisse, et sic non audebant ulterius prosequi pro remedio dampnorum suorum". (H. U. B., 9. b. nr. 523, bls. 377.)

---

218. 18. nóvember 1467. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 152 og 165 (sjá nr. 213) veitt Johannesi Forster og Johannesi Swancot, kaupmönnum í Bristol, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár skipið „le Antony", 300 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvarning" og kaupa þar fisk og annan varning til sölu í Englandi, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta og tolla af verzluninni.

P.R.O., Treaty Rolls, C. 76/151, — 7. Edward IV., bl. 12. Útdráttur er birtur í O. T. B., bls. 136.

Þann 5. júní (hvítasunnudag) 1468 hertóku Danzigmenn og Hollendingar á tveimur herskipum og 6 ótilgreind herskip fjögur ensk kaupför frá Lynn og Boston undan Helsingjaeyri á Eyrarsundi, og var hertakan gerð að undirlagi Kristjáns I., en Englendingar segjast hvorki vita, hverjar væru orsakir þessa hernaðar, né hvort skipin frá Danzig hafi verið gerð út af Kristjáni konungi eða þeim frá Danzig.

Þann 7. júní 1468 var enn tekið kaupskip frá Boston á Eyrarsundi, en áhöfninni er óljóst, hverjir stóðu að töku skipsins.

Þann 8. s. m. var einnig hertekið kaupskip frá Newcastle í Englandi, en þá hertöku frömdu Danzigmenn og Lybikarar.

Sama dag hertóku Danzigmenn einnig kaupskip frá Lundúnum, en Danakonungur kveður það skip tekið, sökum þess að menn frá Bristol hefðu verið á Íslandi síðastliðið ár, en Danir töldu, að Englakonungur hefði ritað Kristjáni I. og sagt honum að búa að Englendingum eins og honum þóknaðist, og var það altalað í landinu. (D. I. X. nr. 23.)

Skýrslu um þessa atburði semja enskir sjónarvottar haustið 1468, en Hansamenn svara henni skömmu síðar lið fyrir lið (H. U. B., 9. b. nr. 521) og bera þar ekki á móti, að atburðirnir

hafi gerzt, en telja sig þó saklausa, af því að deilan sé milli Englendinga og Danakonungs.

Danakonungur varð að beita erlendum skipum, af því að hann átti hvorki skip í landi sínu né skipstjóra né sjómenn nema einungis þau, sem hann fékk frá Hansaborgunum („Memorandum, quod rex Dacie non habet navigium pertinens ad terram suam nec magistros nec marinarios nisi tantum de civitatibus Hanse“) (H. U. B., 9. b. nr. 523, bls. 375.)

Þann 15. júní 1468 rita Hansamenn í Danzig þýzkum kaupmönnum í Lundúnum þess efnis, að Kristján I. hafi látið taka ensk skip, sökum þess að þau hafi siglt (í óleyfi) til Íslands. Þeir óttast refsiaðgerðir Englendinga, af því að menn frá Danzig hafa gengið í þjónustu Danakonungs. (D. I. XI. b. nr. 20.)

Þann 20. júní 1468 ritar Kristján I. borgarstjórum og bæjarráðum enskra borga nema Lynn þess efnis, að gerður hafi verið sáttmáli milli sín og Englakonungs fyrir þremur árum (1465), en samkvæmt honum leyfist enskum kaupmönnum ekki að sigla til Íslands án síns leyfis að viðlögðum missi lífs og eigna. Nokkrir Lynnverjar skeyttu þessu ekki og héldu til Íslands um Mikjálsmessuleyti 1467 og drápu þar hirðstjórann með þeim hætti, sem áður greinir (bls. 417), og kveðst konungur fyrir þrábeiðni sona, erfingja, frænda og vandamanna þeirra, sem saklausir hafi verið drepnir, hafa skorizt í málið og lagt hald á nokkur skip frá Lynn, sem hafi fallið sér í hendur, til þess að bæta orðið tjón, sem hann og þegnar hans hafi orðið fyrir af ofbeldis- og skemmdarverkum, og kveðst halda þeim. Hins vegar kveðst hann hvorki vilja né ætla á nokkurn hátt að láta lögbrot þeirra frá Lynn bitna á öðrum enskum kaupmönnum og hindra eða grípa þá eða skip þeirra á siglingu um haf sitt Eyrarsund, heldur gefa þeim leiðarbréf um ríki sitt og taka þá í vernd sína, þegar þeir sanni með löglegum bréfum merktum með innsiglum smærri eða stærri enskra borga. Hafi einhverjir Englendingar orðið fyrir tjóni sökum illræðisverka Lynnverja eða af félagsskap við þá, ber þeim að krefjast réttmætra bóta af Lynnverjum sjálfum. Einnig biður hann þá alla og sérhvern að skerast í málið og sjá til, að Lynnverjar greiði sér viðhlítandi miskabætur, en þegnum sínum tjón og ofbeldisverk. (D. I. X. nr. 22.)

Þann 21. júlí 1468 ritar Játvarður IV. Kristjáni I. þess efnis, að þegnar sínir hafi kært þá hörmulegu atburði, að skip þeirra og vörur hafi verið gerð upptæk í danskri höfn að honum nærstöddum, og krefst hann þess, að skipin verði látin laus og skaðabætur greiddar. (H. U. B., 9. b. nr. 476.)

Ekki beið Játvarður lengi svars eða sáttatilboða, heldur sneri sér brátt gegn Hansamönnum (sjá bls. 420.)

Þann 24. júlí 1468 kæra 13 nafngreindir kaupmenn frá Lund-

únum, 9 frá Boson og 16 frá Lynn töku skipanna: Georghe frá Lundúnum, Cristofer, Gabriell og George frá Boston og James og Marye frá Lynn fyrir Hansamönnum í Lundúnum og nafngreina helztu þýzku sökudólgana. Skip og vörur telja þeir 20 000 marka virði eða meir. (H. U. B., 9. b. nr. 478.) — Skipsins Valentyne frá Newcastle er hvegi getið, en fjallað um það í sérstökum skýrslum (H. U. B., 9. b. nr. 520.)

Þann 25. júlí 1468 svara Þjóðverjar ákærum Englendinga og vísa þeim á bug á þeim forsendum, að þær séu ófullnægjandi að lögum. Þeir vísa til réttinda sinna í Englandi og segjast enga hlutdeild eiga í töku skipanna, en beiðast að lokum friðar og frelsis. (H. U. B., 9. b. nr. 479.)

Þann 28. júlí 1468 ritar Játvarður IV. frá Westminster borgarstjóra og vísigreifum Lundúna þess efnis, að hann og ríkisráðið sé af gildum ástæðum nauðbeygt til að bjóða þeim að taka til fanga og leggja hald á alla Hansamenn frá Þýzkalandi, sem í daglegu tali séu nefndir „Esterlynges", og eigur þeirra innan borgar og koma í örugga vörzlu, þangað til annað verður ákveðið, en gefa honum og ráðinu skýrslu um málið þann 6. okt. n.k. (H. U. B., 9. b. nr. 480.)

Þann 29. júlí 1468 svara enskir kaupmenn undanfærslu Þjóðverja og vísa þeim á bug, en sama dag og þann 30. júlí eru þýzkir kaupmenn í Lundúnum teknir höndum og vörur þeirra gerðar upptækar (H. U. B., 9. b. nr. 481 og 482), en síðar eru greipar látnar sópa um þýzkar eignir og Þjóðverja í öllum borgum Englands, og er því lokið þann 14. ágúst 1468 (H. U. B., 9. b. nr. 490.) — Þjóðverjar á Englandi snúa sér þá til Hansastaðanna, einkum Lybiku og Kölnar, og beiðast hjálpar og biðja Lybiku m. a. að fá Kristján I. til þess að sanna Englandskonungi, að kaupmenn séu saklausir af töku skipanna (H. U. B., 9. b. nr. 489 og 490, og H. R. Abt. II. 6. nr. 97, 98 og 99), og hefjast nú langdregnar bréfagerðir og samningaumleitanir, en kaupsigling leggst að mestu niður milli Englands og Hansastaða.

Vesturborgir sambandsins undir forystu Kölnar og Danzig við Eystrasalt áttu einkum mikilla hagsmuna að gæta á Englandi og reyndu þegar að milda málin við Englakonung (H. U. B., 9. b. nr. 491 og 494; S. E. T. bls. 91—153.)

Þann 7. sept. 1468 ritar Kasimir, konungur Póllands, Játvarði IV. þess efnis, að hann hafi frétt, að Játvarður hafi lagt hald á eignir allra Pólverja og Hansamanna (í Englandi) og fangað (þar) pólska þegna og Hansakaupmenn, af því að Danakonungur hafi fengið þrjú skip frá Danzig og látið þau taka enska farkosti. Hann lýsir yfir því, að þegnar sínir séu öldungis saklausir, en Danzig hafi með opinberri tilskipun bann-

að öllum mönnum í Danzig að veita Danakonungi lið í ófriðnum að viðlagðri útlegð og eignamissi. Hann minnir konung á, að Játvarður hafi sjálfur staðfest réttindi Hansamanna fyrir nokkrum árum, en samkvæmt þeim á enginn að gjalda fyrir annarra tilverknað, einnig hafi Danakonungur lagt hald á ekki smáar eignir Danzigmanna í ensku skipunum. Póllandskonungur leggur áherzlu á, að enskir kaupmenn skuli njóta sama öryggis og þegnar sínir til verzlunar í ríkinu og einnig hafi hann lagt sig fram við það að fá Danakonung til þess að skila aftur teknum skipum; í krafti þess fer hann þess á leit, að ákvæði fjandsamleg Hansamönnum séu numin úr gildi (í Englandi). (H. R., Abt. II., 6. b. nr. 107.)

Sama dag (7. sept.) 1468 ritar Kasimir Póllandskonungur Játvarði einnig svör við ákærum Englendinga á hendur Danzigmönnum, og segir, að kunngert hafi verið um vorið, að refsing lægi við að veita konungum Dana og Svía, eftir að frá þeim barst beiðni um styrk, en þeir menn frá Danzig, sem hafi ráðizt í þjónustu Danakonungs, hafi gert það án vitundar og vilja borgarinnar og verði refsað; einnig hafi verið vörur frá Danzig í ensku skipunum, en ekkert af herteknum enskum vörum verið flutt til Danzig. (H. R., II. Abt., 6. b. nr. 508.)

Samdægurs gefur Danzig einnig út yfirlýsingu (certificacio) sama efnis, og er þar tekið fram, að engu skipi borgarinnar hafi verið beitt gegn Englendingum.

Þann 9. sept. 1468 tilkynnir Danzig einnig með tilvísun til fyrrgreindra bréfa, að þjónn Danakonungs hafi komið til Danzig, en verið varpað í fangelsi, af því að hann hafi ekki verið saklaus af töku ensku skipanna. (H. R., II. Abt., 6. b. bls. 84.)

Þann 15. sept. 1468 ritar borgarráð í Nimwegen Játvarði IV. og minnist þar friðsamlegra samskipta við Englendinga og margs konar vinfengis, en kærir, að kaupmenn sínir séu ræntir og teknir til fanga saklausir, af því að undirsátar Kristjáns I. hafi rænt Englendinga, en bæði þeir og hertoginn af Geldern séu í engu háðir Kristjáni. Ráðið biður þess, að borgarar Nimwegen séu látnir lausir og fái eignir sínar og sams konar meðhöndlan og þeir Englendingar, sem heimsóttu Nimwegen á dögunum, en þar nutu þeir mikillar gestrisni og voru í engu minntir á tjón, sem orðið höfðu (H. U. B., 9. b. nr. 501.)

Sama dag (15. sept.) 1468 ritar Adolf hertogi af Geldern og Jülich Játvarði IV. þess efnis, að kaupmenn frá Nimwegen og Roermond, sem stundað hafi siglingar til Englands jafnlengi og menn muni eins og aðrir þýzkir borgarar, sem lúti keisara, verði ekki sekir af annarra tilverknaði sökum privilegia sinna, en nú kæri þeir, að þeir séu handteknir sökum misgerða danskra þegna. Hann vekur athygli á því, að Danmörk liggi víðsfjarri

landi sínu og hann og þegnar sínir séu í engu háðir því ríki og hafi ekki átt neina hlutdeild í frömdu verki, og biður, að kaupmennirnir séu látnir lausir og fái að njóta réttinda sinna, „eins og ég varðveiti slíkt í mínu ríki.“ (H. U. B., 9. b. nr. 502.)

Þann 17. sept. 1468 ritar borgarstjórn Kampen Játvarði IV. á sama hátt og stjórn Nimwegen og vekur athygli á því, að Kampen sé ekki í ríki Danakonungs, heldur lúti borgin B. Davíð frá Utrecht, en biður, að kaupmenn séu látnir lausir, og nafngreinir tvo frá Deventer og vörur þeirra. (H. U. B., 9. b. nr. 503 og H. R. II. Abt. 6. b. nr. 109.)

Þann 18. sept. 1468 ritar borgarstjórn í Stralsund Játvarði IV. þess efnis, að hún hafi frétt, að nokkrir illræðismenn hafi borið upp falskar ákærur fyrir konungi og fullyrt, að kaupmenn frá Stralsund hafi keypt vörur úr ensku skipunum 6, sem tekin voru að undirlagi Kristjáns Danakonungs, og flutt þær til Stralsund og margir Hansakaupmenn hafi hvatt Kristján I. til þess að grípa skipin. Stjórn staðarins lýsir yfir því, að þar sem Játvarður hafi lagt hald á allar þýzkar vörur í Englandi, þá þurfi Kristján konungur ekki að leita álits Hansamanna í sínum málum, og Stralsundarar mundu hafa beitt sér fyrir því að hindra verknaðinn, af því að með honum er Englendingum lokuð sjóleið til Stralsunds. Hún vísar með öllu á bug að hafa nokkurn tíma látið stjórnast af Kristjáni I. og að ensku vörurnar hafi verið keyptar eða fluttar til Stralsunds og biður, að fangaðir þýzkir kaupmenn séu látnir lausir og vörum þeirra skilað. (H. U. B., 9. b. nr. 504.)

Þann 20. sept. 1468 býður Játvarður IV. að láta þýzka kaupmenn lausa til 6. okt., svo að þeir geti selt af vörum sínum fyrir 2000 mörk. (H. U. B., 9. b. nr. 507.)

---

**219.** **29. september 1468.** **Gottorp.**

KRISTJÁN I. tilkynnir Játvarði IV., að hann hafi lagt hald á nokkur skip frá Lynn og Bristol, af því að enskir kaupmenn frá þeim borgum hafi siglt til Íslands s.l. ár í heimildarleysi gegn tilskipunum og framið þar morð og brennur, rænt fólk og söfnuðum sköttum konungs og haft á brott með sér. Hann lýsir jafnframt yfir því, að enginn Danzigmaður né þegn Póllandskonungs hafi veitt aðstoð við töku skipanna, og fer þess á leit, að Danzigmenn verði ekki fyrir óþægindum af þessum sökum.

H. R., II. Abt., 6. b. nr. 111, prentaður útdráttur á þýzku með glefsum úr frumtexta:

*K. Christian von Dänemark erklärt dem K. Eduard von England, dass er zufolge der Klagen seiner geschädigten Unterthanen einige Schiffe de Linden et Brostouw beschlagnahmt habe, weil* ante annum contra edictum vestrum regium mercatores quidam ex Linden et Brostouw in Islandia navigarunt qui post commissas ibi cedes et incendia, post rapinas et depopulacionem patrie, collecta etiam pro nobis tributa nostra disruptis erariis abstulerunt, *und bezeugt, dass ihm bei dieser Handlung weder ein Danziger noch irgend ein unterthan des Kg. von Polen Beistand geleistet hat; ersucht deshalb, die Danziger um jener Beschlagnahme willen nicht zu schädigen,* cum in ea re sint vere innoxii. — Ex castro nostro Gottorp, 1468 die b. Michaelis archangeli.

Þann 3. okt. 1468 skerst keisari, Friðrik III., í málið og krefst þess, að kaupmenn keisaradæmisins séu látnir lausir og vörur þeirra. (H. U. B., 9. b. nr. 511.) — En allt kemur fyrir ekki, og misklíðin dregst á langinn með geysilegum bréfaskriftum og skýrslugerðum, og voru Englendingar bannlýstir og burtreknir úr öllum Hansaborgum. — „Item memorandum, quod nullus mercator Anglicus potest vendere vel emere in aliquo loco de civitatibus Hanse nisi tantum in Danzke nec infra Danzke nisi tantum cum ciuibus de Danzke, nec permittuntur habere aliqua privilegia ibidem.“ (H. U. B., 9. b. nr. 523, bls. 377.)

Þann 21. nóv. 1468 úrskurðar Játvarður IV. og ráð hans, að Hansakaupmönnum, að undanskildum þeim frá Köln, beri að greiða Englendingum skaðann, sem þeir hafi orðið fyrir, og skuli vörum þeirra (í Englandi) skipt milli Englendinga, sem ræntir voru. (H. U. B., 9. b. nr. 527.)

Þann 26. nóv. býður konungur síðan að láta Kölnarkaupmenn lausa og vörur þeirra. (H. U. B., 9. b. nr. 528.)

Þann 5. des. 1468 býður Játvarður IV. að handtaka þýzka kaupmenn í Lundúnum, meta vörur þeirra og gera skýrslu um það fyrir 20. jan. n.k., en þetta skal gert til tryggingar því að þýzkum vörum verði skipt til handa Englendingum, sem orðið hafa fyrir ránum.

Fjárnámið hefur verið framkvæmt, því að frá þessu ári, og því næsta er til skrá um upptækar vörur og annað tjón, sem Hansamenn urðu fyrir í borgunum: Lundúnum, Lynn, Boston, Ipswich, Hull og Colchester á Englandi —, og er tjónið metið á

5305 pund 7 s. 3½ d. sterling, en þar segir einnig, að 60 kaupmönnum hafi verið haldið í fangelsi í 39 vikur í Lundúnum, Lynn, Hull og Boston, en í H. R., II. Abt., 6. b. nr. 185 er fangelsisvistin talin 32 vikur, frá 29. júlí 1468. (H. R., II. Abt. 6. b. bls. 69.)

---

220. 1468.

SIGLINGALEYFI til Íslands. — Í Annál Christians van der Gheren segir m. a.: „Anno 1468 gaff de koningk orloff, dat de copman in Ysland muchte segelen, (dat dem copmanne quam to groten schaden in 4 jaren boven 5000 mark Lubesch).[1]) (H. R., Abt. II., 6. b. bls. 69.)

Þann 23. apríl 1469 er því lýst í ráðinu í Lýbiku, að þýzku kaupmennirnir, sem fangaðir voru í Englandi, hafi verið látnir lausir í febrúar s.l. gegn 4000 nóbila-lausnargjaldi til Játvarðar IV., en vörum þeirra að verðgildi 5550 pund sterling var haldið sem áður.

En kærur og gagnkærur eru bornar fram, og Játvarður IV. og ráð hans færir fram réttlætingu gerða sinna þann 29. marz 1469 (H. U.B., 9. b. nr. 570), en Hansamenn svara enn með gagnkæru 14. maí s. á. (H. U. B., 9. b. nr. 584 og D. I. X. b. nr. 25)

Þann 6. júní 1469 staðfestir Jávarður IV. að bæn þýzkra kaupmanna í Lundúnum réttindi þau, sem hann veitti þeim 4. marz 1466 (H. U. B., 9. b. nr. 606 og 245), og hefur þá verzlun þeirra tekið að færast í eðlilegt horf í Englandi, en öðru máli gegndi um siglingu og verzlun Englendinga; þeim voru lokaðar leiðir til Norðurlanda utan Íslands, og af skrám um Eyrarsundstoll sést, að á því herrans ári 1497 siglir ekkert enskt skip inn á Eystrasalt. (N. E. Bang: Tabeller over Skibsfart I. b., bls. 1—50, S. E. T. bls. 138.)

---

221. 8. október 1469. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Forster, kaupmanni frá Bristol, þess efnis, að hann megi gera út í eitt ár skipið „la Antonye" frá Bristol, 220 lest-

1) Innan sviga, ritað með annarri hendi. Þessa leyfis Kristjáns konungs er ekki getið annars staðar, en heimildin verður að teljast sennileg, eins og málum var komið.

ir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur“, en flytja þar fáanlegar vörur til sölu í Englandi og verzla frjálslega, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda skatta af sölunni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/153, — 9. Edward IV., bl. 14. Útdráttur birtur í O. T. B. bls. 137.

Þann 21. desember 1469 rita Brúnsvíkingar Lýbikumönnum um samning við skipara frá Brimum um farmgjald með skipi frá Weser til Íslands og spyrja, hve mikinn farm skipið eigi að flytja til Shetlandseyja (Hjaltlands). (D. I. X. b. nr. 26.)

Um þessar mundir gerist róstusamt á Íslandi, því að hér keppa stórveldi um hagsmuni. Meðan Björn Þorleifsson var hirðstjóri, var hér löngum annar umboðsmaður Kristjáns I., Henrik Kepken, eða e. t. v. réttara Henrik Daniel Kepken að nafni. Hann mun hafa farið utan 1468 til þess að gefa stjórninni skýrslu, en hingað er hann sendur 1470 með erindum konungs og Einari Ormssyni sérstaklega falið að vera honum innan handar. Af því má ætla, að hér hafi einkum staðið stjórn af Einari á þessum árum. Í testamentisbréfi Einars frá 4. júní 1470 segir: „Svo og skipa ég að láta syngja sálumessu eingelskum, er slegnir voru í Grindavík af mínum mönnum.“ (D. I. V. nr. 504 og 509.)

---

## 222. 31. október 1470. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 152 veitt Edmundusi Hungerford riddara og Johannesi Forster, kaupmanni frá Bristoll, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár ónafngreint skip, 300 lestir að stærð eða minna, eða tvö með sama burðarmagni til verzlunar við Ísland eða annars staðar erlendis, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvarning“, en vörur þar fáanlegar til sölu í Englandi og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/144, — 49. Henry VI., bl. 10. Útdráttur í O. T. B., bls. 137.

---

223. 16. desember 1470. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 132 veitt Thomasi Patryngton frá Kyngeston við Hull kaupmanni þess efnis, að hann megi gera út næsta ár skipið „la Anne“ frá Kyngeston við Hull, 200 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur“, en varning þar fáanlegan til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/144, — 49. Henry VI., bl. 7.

Þann 30. des. 1470 ritar ráð Brúnsvíkur til Brima um þrætu upp komna milli Brúnsvíkingsins, Fr. Ledinghusen, og Brimaskiparans, M. Steen, en hann krafðist fullra farmgjalda af skipi sínu samkvæmt samningi frá 1469 (D. I. X. nr. 26), þótt það hefði aldrei komizt á leiðarenda, en samkvæmt farmskrám og Lybiku-recess frá 18. maí 1447 eru fjárkröfur hans ferlega háar. Fr. L. kærir einnig, að lagt hafi verið hald á vörur sínar í Brimum, en af þeim sökum hafi hann beðið mikið fjártjón, auk annars, sem bréfið greinir. (H. U. B., 9. b. nr. 800.)

---

224. 7. febrúar 1471. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 132 veitt Johannesi Swan þess efnis, að hann megi gera út „la Marie Bedford frá Hull“, 200 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland um ótilgreint árabil, flytja þangað alls konar vörur nema „stapúluvarning“, en þar fáanlegar vörur til sölu í Englandi og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/144, — 49. Henry VI., bl. 6.

---

225. 14. febrúar 1471. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Wilelmusi Spenser, Robertusi Sraunge og Johannesi Poweke, kaupmönnum frá Bristol, þess efnis, að þeir megi gera

út ótilgreint enskt skip eða erlent skip, sem hefur enskt siglingaleyfi og er frá landi vinveittu Englendingum, í eitt ár til verzlunar við hvaða land, sem þeim þóknast, að Íslandi þó undanskildu o. s. frv.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/144, — 49. Henry VI., bl. 6. Útdráttur birtur í O. T. B., bls. 137.

Árið 1471 lenda tvö hollenzk skip undir sjórn Marcks Symonssonar frá Veere og Ombehoudens frá Amsterdam í Hafnarfirði, en þar liggja fyrir Englendingar á fjórum skipum auk eins, sem þeir höfðu tekið frá Austmönnum (í Björgvin). Englendingar sigla þegar þremur skipum úr höfninni, en skilja eftir skipið Peter frá Hull ásamt Austmannafarinu. (D. I. XI. nr. 22; skjalið ritað í sept. 1473, en atburðirnir eru taldir hafa gerzt fyrir tveimur árum, og er þar greint frekar frá tíðindum.)

---

**226. 1471. Coventry.**

SKÝRSLA um rannsókn á því, hve margir úlendingar séu búsettir í Coventry á Englandi, en þar finnast tveir Íslendingar meðal annarra, og heita þeir Johannes Glassen og Vrman (Ormur?).

P. R. O., Subsidy Rolls, Warwick, E. 179, 192/99, — 11. Edward IV. County Inquisitions as to aliens.

Inquisisio capta apud Couentre coram Johanne Becte maiore ciuitatis Cauentre Ac Henrico Boteler Recordatore eiusdem ciuitatis duobus custodum pacis domini Regis infra eandem ciuitatem conseruande assign' necnon Johanne Seman' & Roberto Blubery vicecomitibus eiusdem ciuitatis die Martis proximo Ante festum sancti Michaelis Archangeli Anno regni Regis Edwardi quarti post conquestum vndecimo virtute literarum domini Regis patencium eisdem custodibus pacis Ac vicecomitibus ciuitatis predicte & eorum cuilibet direct' per sacramentum Johannis Baron' (og 11 annarra eiðmanna) qui super sacramentum suum iurat'(?) dicunt quod Johannes Glassen de Couentre commoratus in vico(?) crucis ibidem est Alienigena & natus fuit in Islandia & tenet hospicium & Vrman' se-

ruiens Henrici Ball' de Couentre similiter est Alienigena et natus fuit in Islandia & vlterius Juratores predicti dicunt quod non sunt Alienigene in ciuitate predicta Ad presens vnde in literis Domini Regis patentibus fit mencio Ad presentandum preter Johannem Glassen' & Vrman' per ipsos superius presentat' In cuius rei testimon' huic Inquis' custodes paces Ac vicecomites predicti & Juratores predicti sigilla sua Apposuer' Data Apud Couentre die & Anno supradictis

---

**227. 12. nóvember 1472. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Swancote og Johannesi Forster, kaupmönnum frá Bristol, þess efnis, að þeir megi gera út í eitt ár ónafngreint skip, eitt eða tvö, 300 lestir að stærð samtals eða minna, til viðskipta við Ísland og Finnmörku, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur", en þar fáanlegar vörur til sölu í Englandi og verzla frjálslega, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/156, — 12. Edward IV., bl. 18. Útdráttur birtur í O. T. B., bls. 144. — Skipið Mary frá Bristol, öðru nafni „Mary Forster" lét úr höfn í Bristol til Íslands 1473 og kom aftur með fiskfarm 27. júlí, en 16. ágúst leggur hún aftur úr höfn, og er förinni þá heitið til Lissabon; sjá skjal nr. 22.

---

**228. 21. nóvember 1472. Westminster.**

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 164 veitt Johannesi Forster, kaupmanni frá Bristol, þess efnis, að hann megi gera út í tvö ár ónafngreint skip, 300 lestir að stærð eða minna eða tvö með sama burðarmagni samtals, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur", en fisk og aðrar þar fáanlegar vörur til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/156, — 12. Edward IV., bl. 8. Útdráttur er birtur í O. T. B., bls. 144.

---

229. [1472?] [Bristol].

SKRÁ um skip í eigu Wilelmusar Canynges, sem var fimm sinnum borgarstjóri í Bristol, og fólk í þjónustu hans. Þar er þess getið, að eitt af skipum hans hafi farizt við Ísland, 160 lestir að stærð.

Corpus Christi College, Cambridge, MS. 210. Birt í O. T. B., bls. 139—40. — W. Canynges var einn helzti skipeigandi í Bristol og gerði oft út skip til Íslands, eins og sést hér að framan. — Carus-Wilson telur þessa skrá samda rétt fyrir lát hans, en hann lézt 17. nóv. 1474.

Memorandum de nauibus ad expensas domini Wilelmi Canynghys de nouo fabricatis in villa Bristollie.
Dominus Wilelmus Canyngis qui fuit maior Lond' (svo, fyrir Bristol) vicibus per octo Annos exhibuit Dccc homines in nauibus occupatos & habuit operarios & carpentarios masons etc. omni die C homines.
De nauibus habuit
le Mary Canyngys de 400 doliatis
le Mary Radclyff ponderis 500 doliatarum
le Mary et John ponderis 900 doliatarum
constabat sibi in toto 4000 marcas
le Galyot nauis ponderis 50 doliatarum
le Cateryn ponderis 140 doliatarum
le Marybat ponderis 220 doliatarum
le Margyt de Tynby ponders 200 doliatarum
le lytille Nicholas ponderis 140 doliatarum
le Kateryn de Boston ponderis 220 doliatarum
le —— nauis in Iselond perdita circa pondus 160 doliatarum
Á spássíu: quies(?) mercator post sacerdos et mastr' ....[1]) Westbury college

---

1) Ólæsilegt.

**230. 1. maí 1473. Westminster.**

FRIÐARSAMNINGUR Játvarðar IV. Englakonungs og Kristjáns I. Danakonungs eftir ófriðinn, sem hófst út af drápi Björns Þorleifssonar. Þeir semja með sér tveggja ára frið, en það árabil skulu Skotakonungur, hertoginn af Burgund eða aðrir þjóðhöfðingjar, sem konungar Dana og Englendinga kjósa til, setja niður deilur, sem upp kunna að koma, en þegnar beggja ríkja hafa gagnkvæman rétt til verzlunar í ríkjum þeirra að því tilskildu, að Englendingar sigli ekki til Íslands án sérstaks leyfis. Undirritað með eigin hendi Játvarðs konungs.

Prentað í Diplomatarium Christierni primi, Khöfn 1856, bls. 276—78, og Rymer Foedera, útg. Holmes V, III, 29. — Stutt klausa birt í D. I. V. b. nr. 618.

Edwardus dei gracia rex Anglie et Francie et dominus Hibernie omnibus, ad quos presentes litere peruenerint, salutem cum prosperorum successuum incrementis. Eius, qui in terris nobis ceptra commisit, saluatoris nostri Jesu Christi, qui pacem suam donauit nobis pacemque suam reliquit nobis, insequendo doctrinam, ea que ad pacem sunt summopere duximus amplectanda. Quamquam itaque alias per nostros atque serenissimi principis domini Cristierni Dacie Suecie Norwegie etc. regis ambassiatores et nuncios tunc in opido Hamburgensi Bremensis diocesis ad hoc congregatos inter nos prefatumque Dacie etc. regem regnorumque nostrorum hincinde incolas et subditos concepta inita et celebrata atque expost approbata et confirmata pacis concordie et amicicie liga seu confederacio, temporis successu, peruersorum, quorum totus conatus ad turbandum pacem anhelat, sinistris actibus violata interuptaque sit: nos tamen atque prefatus rex Dacie, ad quos peruigili solicitudinis oculo regnorum atque subditorum nostrorum profectum atque salutem contueri pertinet, considerantes quod veluti discordia res magne periere atque concordia res parue crescere consuerunt, sic ex

pacis interupcione predicta regnorum nostrorum hincinde incolis et subditis nullus fructus salutis, set vndicumque dampnum et decrementum subortum est: peruersorum itaque conatibus huiusmodi obuiare pacisque reparacioni summo studio intendere decreuimus, et post eo pretexu de nouo inter nos habita scripta ambassiatas atque tractatus, tandem, septiformis munere ab alto graciose superinfuso, nos atque prefatus rex Dacie ad has resolidate deuenimus concordie metas et puncta articulatim subinserta. Primo itaque confitemur, quod inter nos et dictum Dacie regem conuentum atque conclusum est quod, non obstantibus quibuscumque sinistris actibus quibus contra confederacionem predictam quomodolibet actum illaque violata esse poterit, volumus tamen nos atque rex Dacie prefatus exnunc incipiendo et ad biennium proximo futurum inclusiue continuando ligam et confederacionem predictam, prout illa alias inter nos concepta celebrata atque sigillata est, in omnibus suis punctis et articulis firmiter et inconcusse, ac si numquam interupta fuisset, obseruare, neque eidem aliquatenus quacumque racione vel causa in toto vel in parte contrauenire. Secundo determinatum atque conuentum est, quod omnes et singule actiones per tempus interupte confederacionis predicte inter nos et prefatum Dacie regem et nostrorum et illius regnorum incolas exorte, atque subditis nostris suisque quomodolibet vicissim, alteri videlicet contra alterum, competentes, in amicicia integra manebunt suspense vsque ad dietam infrascriptam sub biennio predicto celebrandam, nec ante finem eiusdem aliquis subditorum nostrorum vel dicti Dacie regis coniunctim aut diuisim, per se vel per alios, via iuris vel facti contra se inuicem quomodolibet ex causis predictis attemptabit. Tercio conclusum est, quod biennio huiusmodi currente, quamprimum oportunitas permiserit, aliqua competencia loca et tempora pro dieta inter nos et prefatum Dacie regem celebranda deputentur, vbi tunc inclitus rex Scocie atque illustris dux Burgundie aut alii principis fratres,

quos nos et idem rex Dacie duximus eligendos, per se aut suos ambassiatores tanquam arbitri et amicabiles compositores omnia et singula post et contra confederacionem predictam quomodolibet acta audiant examinent iudicent reforment atque differencias et causas predictas in amicicia aut iure terminent ac perpetuo silencio finiant, confederacionemque predictam renouent resolident et in pristina puncta reducant atque continuent, prout ipsis racioni consonum visum fuerit expedire. Quarto diffinitum est, quod infra biennium antedictum mercatores incoleque nostrorum et dicti Dacie regis regnorum prenominatorum, et quilibet ipsorum pro libito sue voluntatis secure et libere, quociens placuerit, regna prefata hincinde, de Anglia videlicet ad Daciam Sueciam et Norwegiam atque de Dacia Suecia et Norwegia ad Angliam, potuerint cum rebus et mercibus suis per mare quam per terram visitare, in omnibus et per omnia, iuxta predicte olim concepte celebrate et sigillate confederacionis vim formam et tenorem, sub libero atque securo saluo conductu, quem nos Edwardus rex prefatus dicti regis Dacie et idem Dacie rex nostris incolis et subditis, tociens quociens requisiti seu requitus fuerimus seu fuerit, dabimus et dabit, prout et nos Edwardus rex prelibatus huiusmodi securum et saluum conductum exnunc regis Dacie subditis, melioribus modo et forma quibus ipsis validius et efficacius dare poterimus, per totum biennium predictum valide atque plenarie vigore huiusmodi nostrarum literarum concedimus et impartimur, hoc specialiter excepto, quod incole regni nostri Anglie, sine speciali licencia atque saluo conductu a Cristierno rege sepefato specialiter obtinendis, per huiusmodi biennium terram suam Islandiam nullatenus visitabunt aut inibi suas mercancias excercebunt. Quos quidem articulos et puncta, causa confederacionis inter nos et prefatum Dacii (svo) regem pro nostrorum atque illius regnorum eorumdemque incolarum salute renouande reintegrande resolidande atque recontinuande conceptos, nos

Edwardus in vim huiusmodi nostrarum literarum acceptamus approbamus gratificamus gratos et ratos habere volumus: promittentes sub fide regalis nostre maiestatis omnia et singula in huiusmodi nostris reconsiliacionis literis contenta firma et inconcussa, quantum ad nos spectat et pertinet, inuiolabiliter obseruare nec contrauenire eisdem per nos neque per alium seu per alios quouis questio colore vel ingenio de iure vel de facto. In quorum omnium et singulorum premissorum maius robur firmiorem fidem ac euidencius testimonium, harum literarum due, vnius quidem effectus, set vna sub nostris alia vero sub dicti Dacie regis nominibus sigillis atque manuum nostre et sue propriarum subscriptionibus, confecte conscripte atque sigillate sunt, quarum vna, videlicet presens, sub nostro nomine sigillo et subscriptione apud prefatum regem Dacie, et alia, videlicet sub sepefati regis Dacie nomine sigillo et subscriptione, expedite apud nos erunt et remanebunt. Datum apud Westmonasterium primo die Maii, anno regni nostri terciodecimo. (per ipsum regem)

Edwardus R.[1])

Samningarnir voru síðar staðfestir á ráðstefnu i Utrecht júlí—september 1473, en þar voru samankomnir fulltrúar Hansaborga, Játvarðs Englakonungs, hertogans af Burgund, hertogans af Bretagne og margra annarra héraða og borga, og að lokum náðist fullt samkomulag á ráðstefnu i Utrecht febr.—mai 1474, og var þar m. a. samþykkt að Englendingar skyldu greiða £10.000 í skaðabætur. (H. R., Abt. II., 7. b.)

Þann 6. júlí (in octava apostolorum Petri et Pauli) 1474 ræna kaupmenn frá Hull og Bristol, sem stunda löglausa siglingu til Íslands, frá Jóhannesi Mönick Hansakaupmanni í Björgvin 4000 fiskum og 6 spýtingum, hver 60 álnir. (D. I. VI. nr. 66.)

Þann 22. júlí (in festo sancte Marie Magdalene) 1475 ræna kaupmenn frá Húll og Bristol (sömu og frömdu ránið 6/7 1474) úr skipi Jóhannesar Röremberghs, þýzks kaupmanns í Björgvin, 12450 riklingum, 4 tunnum af sellýsi, 100 skollaskinnum, 3 sekkjum af hreinsuðu fiðri, 100 sköttum („skatthe“), 60 „raffua“ eða „rafna“, 6 spýtingum, hver 60 álnir. (D. I. VI. b. nr. 66.)

1) Með eigin hendi.

Í íslenzkum heimildum síðari alda er nokkrum sinnum getið um orustu eða strið í Hafnarfirði um þessar mundir. Jón Egilsson getur þess í Biskupaannálum, að enskt þrjúhundruð (= 360) manna skip hafi þrisvar legið hjá Fornubúðum í Hafnarfirði og tvisvar háð þar orustu. Fyrri orustan var háð á dögum Magnúsar biskups Eyjólfssonar (1477—'90) að sögn Jóns. Englendingar „gripu skreið fyrir ábótanum í Viðey og fleiri Nesjamönnum þar. Ábótinn gerði sig þá heiman með lx manna til bardaga við þá, en áður hann reið fram til þeirra, þá spurði hann alla, hvort þeir væru samhugaðir sér að fylgja. Þeir játuðu því allir. En sem heim var riðið, sneru aftur xxx, en aðrir xxx riðu fram, og sló þar í bardaga.“ Þar vinna síðan 30 Íslendingar sigur á 360 manna liði Englendinga, en ábóti missir son sinn. (Safn til s. Ísl. I. bls. 46.) Þessi frásögn Jóns Egilssonar hefur á sér allt snið þjóðsögu, en „væri hin merkilegasta, ef menn vissu fullan sann á“, segir Jón Espólín í árbókunum. En þjóðsögur hafa oft í sér nokkurn sannleikskjarna, og öruggt má telja, að slegið hafi í bardaga milli Englendinga og Íslendinga í Hafnarfirði á ofanverðri 15. öld og e. t. v. oftar en einu sinni. Í ritgerð sinni: Ættir og slekti segir Jón Guðmundsson, að Magnús Auðunarson í Deildartungu hafi fallið „á Ófriðarstöðum í því engelska Hafnarfjarðarstríði fyrir svik landsmanna. Hans sonur, séra Salomon, var þá djákn að vígslu og komst nauðuglega undan í myrkri.“ — Samkvæmt heimildum um séra Salómon ætti orustan að hafa verið háð um 1460, þótt ógjörlegt sé að árfæra hana með nokkurri vissu. Ábótinn, sem um getur, hjá Jóni Egilssyni, gæti verið Steinmóður Bárðarson (ábóti í Viðey 1444—81.) Hins vegar er til ein samtímaheimild um bardaga í Hafnarfirði á 15. öld, en þar koma Íslendingar lítið við sögu. Þær skærur urðu árið 1475.

Þann 10. júní 1476 gefa 10 nafngreindir höfðingjar á Íslandi út bréf um rán Bristolmanna 22. júlí 1475. Þar segir, að fyrir Játvarð Englakonung hafi komið mál, sótt af Henriki van Fursten og Hans Loreholt, Hansakaupmönnum, á hendur Johannesi Goodmann, Johannesi Brent og Roberti Stevenson, kaupmönnum frá Bristol, og Johannesi Cruse, skipstjóra á „le Mary de Bristowe“. Málavextir eru þannig lagðir fyrir í kæru Hansamanna: H. v. F. og H. L. lágu sumarið 1475 á „Balinger“ frá Lybiku nefndum Lylly við Snæfellsjökul á Íslandi og höfðu fermt skipið íslenzkri skreið. Þann 22. júlí taka þeir J. Goodmann, J. Brent, J. Cruse og margir aðrir skipstjórnarmenn enskir Lybikufarið herskildi, en fyrir því var H. Rothenberg frá Lybiku, eigandi þess var Laurencius Lange (öldurmaður þýzka kontórsins í Björgvin; H. R. II. 7. 15, 278, 343, 416) og Courte Bode (Cort Bader, öldurmaður í Björgvin; H. R. II. 7. nr. 338) og kaup-

menn einnig frá Lybiku, en eigendur farmsins þeir H. Fursten, H. Loreholt og aðrir lybiskir kaupmenn. Enginn þegn Danakonungs átti neitt á eða í skipinu. — Hér telja Íslendingar mjög hallað réttu máli og J. Goodmann óttast strangar tyftanir og tjón, nema þeir bregðist vel við og beri sannleikanum vitni, en J. G. sé í engu sekur við H. Fursten og H. Loreholt. Íslendingar segja, að mánuðina apríl, maí og júní 1475 hafi skipið Anna frá Björgvin legið við Snæfellsjökul hlaðið íslenzkri skreið. Þann 22. júlí réðust tvö skip frá Bristol að því undir forystu J. Goodmanns og félaga hans, rændu það og tóku. Skipstjóri var H. Rothenberg, þegn Danakonungs, búsettur í Björgvin, en fyrrgreindir Lybikarar áttu ekkert í því skipi. Anna er talin fermd 8 lestum skreiðar, sem ónafngreindur kaupmaður frá Lybiku átti og H. Fursten, og 40 lestum skreiðar, sem nafngreindir Björgvinjarkaupmenn áttu, þegnar Danakonungs. Til skýringar þessu framferði segja Íslendingar þá sögu, að fyrrgreint vor hafi hirðstjóri Noregskonungs á Íslandi, H. Daniel, hafið sjóhernað gegn nokkrum skipum frá Skarðaborg, sem hafa sennilega legið í Hafnarfirði. Í því stríði nýtur hann styrktar H. Rothenberghs, H. Furstens og samborgara þeirra. Sá fyrrnefndi sendi hirðstjóra þrjár harðneskjur á hesti frá Bessastöðum til Hafnarfjarðar og þjón sinn altygjaðan. Sjálfur tók H. Fursten og ógreindur kaupmaður frá Lybiku þátt í bardaganum gegn Englendingum. — (D. I. X. nr. 27.)

Þann 7. marz 1476 veita þeir Jóhannes biskup í Björgvin og Þorsteinn Þorkelsson, kapellumeistari og prófastur í sömu borg, Jóhanni Mönick Hansakaupmanni verndarbréf til þess að ná rétti sínum á enskum kaupmönnum frá Húll og Bristol, sem hafa stundað löglausar siglingar til Íslands, brotið gegn settum griðum og rænt hann þar miklum eignum, eins og framar greinir (bls. 433; D. I. VI. b. nr. 66.)

Árið 1476 ritar Jóhannes biskup í Björgvin og aðrir höfðingjar þar í borg Englandskonungi bréf og leita skaðabóta fyrir það, að Englendingar höfðu rænt Jóhannes Röremberg, þýzkan kaupmann frá Björgvin, fé og farkosti á Íslandi. (D. I. VI. nr. 67.)

Þann 16. marz 1476 endurnýja þeir Kristján I. og Játvarður IV. tveggjaárafriðarsamninginn frá 1. maí 1473, og gildir hann nú frá 1. júní n.k., en þann tveggja ára tíma skulu ambassadorar konunganna flytja kærur, sem upp kunna að koma, fyrir konungi Skota og Burgundarhertoga eða öðrum þjóðhöfðingjum, sem geri um málin. Að öðru leyti samhljóða samn. frá 1. maí. (D. I. VI. nr. 68; Forty Fifth Annual Report of the Deputy Keeper, London 1885, Appendix II. bls. 5.)

Fyrri hluta sumars 1476 ályktar Hansaráðið m. a. að rita Játvarði Englandskonungi um bætur fyrir íslenzka skreið, þrjú

hundruð sterlingspunda virði, er rænt hafi verið frá kaupmönnum í Björgvin. (D. I. X. b. nr. 23.)

Þann 15. júní 1476 ritar ráðið í Lýbiku Játvarði IV. og beiðist bóta fyrir tilstilli hans fyrir rán það, er sex menn frá Lýbiku hafi orðið fyrir við Ísland þann 22. júlí 1475 af völdum Englendinga frá Bristol, en Hansafarið hafi verið hlaðið fiski og öðrum varningi allt að £ 2000 virði. (D. I. XII. b. nr. 26, sjá bls. 434 hér á undan.)

Þann 14. febrúar 1477 veitir Játvarður IV. Englandskonungur Richardusi, hertoga af Gloucester, konungsbróður og flotaforingja Englands, umboð til þess að rannsaka kærur Bartolds Foolkerdeneks, kaupmanns frá Þýzkalandi, umboðsmanns Hermanns Derschows, Margwards Reenes, Henricusar Hovemans og Nicholausar Sheks, kaupmanna frá Lýbiku í Þýzkalandi, og Jóhannesar de Forsten, Henricusar Hoosen, Símonar Vrodelond, Henricusar Hyldesthorpe, Cristians de Heye og Johannesar Pothurst, kaupmanna frá Hamborg í Þýzkalandi, þess efnis, að Henricus Forsten, skipstjóri á „le Jacob“ frá Hamborg, sigldi því hlöðnu fiski og öðrum vörum téðra kaupmanna, þ. e. a. s. 26.000 harðfiskum, 2000 „staplefisshe“ og 9 tunnum af lýsi að verðgildi £ 600 frá Íslandi og ætlaði til Lundúna. Þegar skipið var undan strönd Jórvíkurskíris nálægt borginni Hertilpole þann 31. ágúst síðastliðinn, rak það á land, en skip, áhöfn og vörur sakaði ekki, og var beðið flæðar. Þá bar þar að Thomas nokkurn Lumley, riddara og lávarð af Lumley, og Georg Lumley riddara og aðra illræðismenn. Þeir réðust á skipstjóra og áhöfn á „la Jacob“, meiddu og særðu skipsfólkið, brutu skipið í spón, rændu það fiski og varningi, enda þótt vinátta hafi verið staðfest milli konungsins og þeirra frá Þýzkalandi. Konungur býður jarli að taka illvirkjana til fanga og sjá til þess, að skipi og vörum sé skilað aftur, eða bætur að öðrum kosti greiddar B. Foolkerdenek eða umboðsmönnum hans. (D. I. XI. b. nr. 24. — P. R. O., Patent Rolls, C. 66/539, — 16. Edw. IV. 2. hluti, bl. 16 bak. Útdráttur birtur í Cal. P. R., London 1901, bls. 23. Bréf þetta er endurtekið þann 28. marz s. á., sjá P. R. O., Patent Rolls, C. 66/540, — 17. Edw. IV., 1. hluti, bl. 17; Cal. P. R., London 1901, bls. 49.

Þann 26. apríl 1478 endurnýja þeir Kristján I. og Játvarður IV. tveggja ára friðarsamning sinn frá 1. maí 1473. Orðrétt samhljóða samningnum nr. 230 (D. I. V. b. nr. 129.)

---

231. 4. nóvember 1478. Westminster.

LEYFISBRÉF sams konar og nr. 165 veitt Johannesi Forster, kaupmanni frá Bristol, þess efnis, að hann megi

gera út í tvö ár ónafngreint skip, 160 lestir að stærð eða minna, til verzlunar við Ísland, flytja þangað alls konar varning nema „stapúluvörur", en þar fáanlegar vörur til Englands og verzla frjálslega, svo fremi lög og statútur mæli því ekki gegn og konungur hljóti skylda tolla og skatta af verzluninni.

P. R. O., Treaty Rolls, C. 76/162, — 18. Edward IV., bl. 9. — Útdráttur birtur í O. T. B. bls. 155.

Þann 12. febrúar 1479 endurnýja þeir Kristján I. og Jávarður IV. tveggja ára friðarsamning sinn frá 1. maí 1473. Orðrétt samhljóða samningnum nr. 231. (D. I. VI. b. nr. 180.)

---

232. 1480. Bristol.

SKRÁ um skip í Bristol 1480, og eru 10 nafngreind og getið um burðarmagn þeirra, en önnur 12 eru talin í eign Thomasar Straunge, en þar mun sennilega átt við Robert Straunge, sem þrisvar var borgarstjóri í Bristol og rak allmikla verzlun við Spán, Portúgal og Ísland. Önnur eru talin í eign Johannesar Godemans. Sum af skipum þessum gengu víslega til Íslands (sjá nr. 9, 13, 22, 23.)

Corpus Christi College, Cambridge, MS. 210. — Prentað í O. T. B., bls. 155—156.

Naves Bristollie pertinentes in Anno Christi 1480.
Mary Grace 300 doliata
le Trinite 360 doliata
George 200 doliata
Kateryn 180 doliata
Mary Bryd 100 doliata
Cristofer 90 doliata
Mary Sherman 54 doliata
Leonard 50 Tontyghte
Mary of Bristow lx tonn'
Le George qui quer' .... 52 tonne

Le George qui quer' ....[1]) 52 tonne
— — —[2]) navis qui dispositus est ad mare
Johannes Godeman' habet navium
Thomas Straunge (circiter xii)[3])

---

233. Um 1480. Bristol.

SKRÁ um skip, sem liggja fyrir akkerum um fjöru við Blackstones í Severn og bíða flæðar til þess að geta haldið til Bristol. Þau koma frá ýmsum löndum og m. a. frá Íslandi.

Corpus Christi College, Cambridge, MS. 210. — Prentað í O. T. B., bls. 156.

Blake stonys scita in aqua de Severn apud Holowbakkes distans a Bristollia ultra Hungrode per 4 miliaria ubi naves et navicule morantur pro novo refluxu maris et dicte rupes parve quando mare de Severne incipit refluere versus Bristolliam per Kyngrode Hungrode et per Ghyston slyff ac — — — —[4]) cooperiuntur cum mar' quamscito sic per refluxum incepcionis maris omnes naves apud le holow bakkys de Hispania, Portugallia Burdegalia, Bazona, Vasconia, Aquietania, Britannia, Islandia, Irlandia, Wallia et ceteris patriis trahunt eorum anchora et disponunt ea velare versus Bristolliam.

Þann 4. júlí 1480 rita 24 sýslumenn og lögréttumenn norðan og vestan á Íslandi Kristjáni I. um kvartanir alþingis um vetursetu útlendinga hér á landi, en þeir eru taldir halda hér hús og garða við sjóinn, lokka til sín þjónustufólk bænda og selja ónytsamlegan varning fyrir skreið, smjör og slátur og vaðmál á allt of háu verði. Á alþingi um sumarið var samþykkt að banna hér vetursetu útlendinga annarra en þeirra, sem fæddir væru í ríki Noregskonungs. Þá var einnig samþykkt ný verðskrá á þá leið, „að 3 vættir skreiðar skyldi vera fyrir c hvert, hálfstykki klæð-

1) Ólæsilegt.
2) Eyða í handriti.
3) Með annarri hendi.
4) Eyða í handriti.

is skyldi gjalda fyrir hvert hundrað, 6 tunnur malts, 4 tunnur mjöls, jarfat, 12 fjórðungaketill og svo virðan pening annan upp á hvert c. En ef nokkur útlenzkur maður vildi ekki halda þessa samþykkt og settu sig og sína peninga til vetrarsetu hér í landið, þá skyldi upptækt konungs umboðsmanni allt þeirra góss.“ (D. I. VI. b. nr. 264.)

Þann 5. júlí 1480 endurnýja þeir Kristján I. og Játvarður IV. samninginn frá 1. maí 1473, og er hann orðrétt samhljóða fyrri samningum. (D. I. VI. b. nr. 265.)

Þann 16. nóvember 1480 ályktar Hansaráðið um tunnur til bjórgerðar, sem flytja á til Íslands. (D. I. XI. b. nr. 26.)

---

234. 28. janúar 1481. Westminster.

TILSKIPUN þess efnis, að Wymund Austyn, fæddum á Rene (Rein?) á Íslandi, leyfist að búa í friði í konungsríkinu og njóta eigna sinna, en hann er búsettur í Exeter í Englandi og hefur unnið hollustueið.

P.R.O., Patent Rolls, C. 66/546, — 20. Edward IV. 2. hluti, bl. 3. Útdráttur prentaður í Cal. P. R., London 1901, bls. 242. Formálaklausu bréfsins sleppt að mestu.

pro Wymundo Austyn'

Rex omnibus ad quos etc. salutem. Sciatis quod Wymundus Austyn' apud villam de Rene in Islandia oriundus apud ciuitatem nostram Exoniam infra regnum nosrum Angliam commoratus vt dicitur etc. — vsque ibi catallis suis et tunc sic habere & gaudere integre & pacifice permitatis etc. vt supra mutat' mutand' T. R. apud Westm. xxviij die Januarij

Þann 20. maí 1481 ritar Kristján I. almúganum á Íslandi um útlenda vetrarlegumenn og skuldir við kirkjur, og er það svar við bréfi Íslendinga frá 4. júlí 1480 (bls. 438). Þar bannar konungur vetursetu útlendinga og kaupskap „móti landsins lögum, privilegium og friheitum“. (D. I. VI. nr. 335.) Af þeim hluta bréfsins, sem fjallar um verzlun, eru til tvær afskriftir á ríkisskjalasafni í Hamborg, Cl. VII, Lit. K[a] Nr. 11, vol. 1[a], bl. 1 og 2, annað lágþýzk þýðing, en hitt afskrift danska textans, báðar taldar frá því um 1530—40. Báðar eru dagsettar „dominica cantate“ (20. maí) 1481, og mun því enginn vafi leika framar á árfærslu þessa bréfs. (Sjá skrá G. J. Lbs.)

Þann 10. sept. 1481 rita öldurmenn þýzku kaupmannasamkundunnar í Björgvin borgarráði Lybiku og formönnum Vindaborganna: Hamborgar, Lüneborgar, Rostokks, Wismars og Stralsunds þess efnis, að æskilegt sé, að afturkallaður væri sá réttur, sem sumum Hansamönnum hafi verið veittur að forspurðu norska ríkisráðinu, til þess að reka verzlun á Íslandi og Hjaltlandi. (D. I. VI. nr. 362.)

Þann 12. sept. 1481 skýrir norska ríkisráðið ráði Lybiku frá því, að hagsmunir Noregs og Lybiku heimti það, að réttur sá, sem Kristján I. veitti Hamborgurum og öðrum Hansaborgum til verzlunar á Íslandi, sé afnuminn, en aðalstöð Íslandsverzlunarinnar sé framvegis í Björgvin. (D. I. VI. nr. 363, sbr. annálsgreinina bls. 424 hér að framan.)

Þann 1. febr. 1482 kæra innbyggjarar norska ríkisins ýmis mál og réttindi, sem vanrækt hafi verið og brotin á ríkisstjórnarárum Kristjáns I., og krefjast bóta, áður en kosinn verði og samþykktur nokkur konungur fyrir norska ríkið, en þar segir m. a.: „Item að Ísland sé í hendur fengið innbornum Norðmanni og af mætti leggjast sú kaupsigling útlendra manna til Íslands, sem nú helzt þangað að forspurðu ríkisráðinu og er Noregsríki til mikils skaða og tjóns.“ (D. I. IX. nr. 36.)

Þann 21. apríl 1482 ályktar Hansaráðið m. a. um verzlun á Íslandi. Þar segir, að lesið hafi verið bréf frá norska ríkisráðinu og kaupmannasamkundunni í Björgvin þess efnis, að (þýzku Hansaborgunum) væri bönnuð sigling til Íslands. Öldurmenn í Björgvin kæra Íslandssiglingar (Hansaborganna) og telja hana skaðlega. Samþykkt var að veita Hamborgurum leyfi til þess að sigla þegar fermdum skipum þetta vor til Íslands, en þar með skyldi sú sigling úr sögunni. (D. I. XI. nr. 27.)

Þann 1. febrúar 1483 er gerð ríkisskuldbinding Hans konungs (Hjálmstaðarrecess), en þar segir m. a., að kaupmönnum allra landa sé frjálst að sigla til Björgvinjar og annarra kaupstaða í Noregi samkvæmt fornum privilegium, sem fyrri Noregskonungar hafi veitt þeim, og Hollendingar sigli eftir þeirra siðvana. „Item viljum vér og eigi leyfa, að nokkrir kaupmenn frá Hansastöðunum sigli til Íslands, og viljum eigi setja þar neina útlenda menn að höfuðsmönnum.“ (Síðasta klausan endurtekin í Kalmarrecess 7. sept. 1483.) (D. I. VI. nr. 420, IX. nr. 37 og Ríkisréttindi Íslands, bls. 31.)

Þann 7. febrúar 1483 ritar Hans konungur ráðsmönnum í Danzig þess efnis, að hann geti eigi lengur þolað, að Danzigmenn styðji og styrki verzlun enskra kaupmanna, því að Englendingar hafi framið margföld ofbeldisverk á þegnum sínum, einkum á Íslandi, brennt, drepið og rænt, en af því hafi leitt ófrið milli Kristjáns I. og ríkis síns annars vegar, en Englendinga hins

vegar, og segir, að þeir séu ábyrgir, ef eitthvað komi fyrir og þessu sé ekki breytt (D. I. XI. nr. 30.)

Þann 24. apríl 1483 veitir Játvarður V. Englakonungur Robertusi Alrock, kaupmanni í Kyngeston við Hull, leyfi til þess að gera út eitt 250 lesta skip eða minna, ferma það alls konar varningi nema „stapúluvörum“ til verzlunar við Ísland og kaupa þar fáanlegar vörur og flytja til Englands, svo fremi lög og tilskipanir mæli því ekki gegn og konungur fái skylda tolla og skatta af verzluninni. Leyfið gildir í tvö ár. (D. I. VI. nr. 426.)

Þann 7. maí 1483 varð upphlaup alþýðu í Hamborg gegn ráðinu, og setti lýðurinn upp skjal til ráðsins, kærði um Íslandsför, neyð sína og hallæri o. s. frv. (D. I. XI. nr. 31.)

Þann 20. janúar 1484 rita þýzkir kaupmenn í Brügge Hansaráði og lýsa þar ósanna staðhæfingu Clawes Slucks í bréfi frá 4. des. 1484, að kaupmaðurinn, sem hafi haft á brott skip Heinreks skipherra Schröders frá Danzig, — en skipið kom frá Íslandi og var statt undan Englandi þann 9. ágúst — „hafi gert sátt og sama við Spánverja og heitið þeim friði og félegum degi til Hansaborganna“. (D. I. X. nr. 30.)

---

235.

23. febrúar 1484. Westminster.

RÍKARÐUR III. Englandskonungur ritar skipaeigendum, skipstjórum og sjómönnum í héruðunum Norfolk og Suffolk og bannar þeim að sigla til Íslands án síns leyfis. Að fengnu leyfi býður hann þeim að safnast saman í Humbru, vel búnum að vopnum og klæðum, og bíða þar skipa frá Hull, sem muni verða þeim til varnar.

Prentað í Letters and Papers of Richard III. and Henry VII. II. b., London 1863, bls. 287. (M. S. Hrl. 433 f. 159 b.)

Ricardus, etc. To all maner ouners, maisters, and mariners of the naveye of our countes of Norffolk and Suffolk, aswele fisshers as other, entending to departe into the parties of Island, and to every of them, greting:

Forasmoche as we understande that certain of you entende hastely to departe towardes Island, not purveied of waughters for your suertie in that behalve; we, for certain grete causes and consideracions us moving, woll and straitly charge you, alle and every

of you, that ye ne noon of you severally depart aut of any of our havens of this our realme, towards the said parties of Island, without our licence furst had soo to do, and thereupon, that ye garde and assemble your selff in such one of our havens or portes in our said counties of Norfolk and Suffolk as ye shall thinke most convenient, wele harnyssed and apparelled for your owne sueretie, and sood forto departe alle togider toward Humbre, to attende there upon our shippes of Hull as your waughters, for the sueretie of you all; and that ye dessevere not without tempest of weder compelle you but that ye keep you togeder, aswele going into the said parties as in your retorne unto this our realme, without any wilfull breche to the contrarie, upon payn of forfaiture of your shippes and goodes in the same. Yoven etc. the 23. day of February, anno primo.

Þann 11. marz 1484 segir svo í Hansaresessum um verzlun við Ísland, að öldurmenn og Björgvinjarfarar kvarti undan Íslandsferðum, sem séu einkum stundaðar frá Hamborg, og nú sé eitt skip búið til ferða um Wismar til Íslands.

Fulltrúi Hamborgara lýsir yfir, að hann hafi engar fyrirskipanir um það, að ekkert skip verði gert út frá Elfunni til Íslands, en aðrir fullrúar svara, að þeir vildu gjarna flytja slíkar fyrirskipanir, þótt þeir hefðu engin boð um það, en álitu ekki ónauðsynlegt, að slíkum ferðum yrði einnig hætt frá öðrum borgum; þá mundu þeir einnig gjöra slíkt hið sama.

Hér með var ákveðið, að þeir frá Brimum, Danzig og öðrum borgum, sem gerðu út menn og skip til Íslands, féllust á, að slíkar ferðir skyldu hindraðar. (D. I. XI. nr. 32.)

Þann 16. marz 1484 ritar ráð Lybiku og sendifulltrúar annarra Hansastaða á Vindlandi bréf til ráðs í Danzig þess efnis, að ríkisráð Norðmanna kæri með styrk þýzku öldurmannanna í Björgvin verzlunarferðir Hansamanna til Íslands, því að þær séu til stórtjóns bæði fyrir norska ríkið og þýzka Björgvinjarkaupmenn; af þessum sökum er bönnuð öll sigling til Íslands, Hjaltlands og Færeyja, og ber Danzigmönnum því að halda aftur skipum þeim, sem þangað hafa ætlað. (D. I. XI. nr. 33.)

Þann 1. júlí 1484 rita 12 lögréttumenn bréf um fylgi útlendinga við Andrés Guðmundsson, er hann rænti Þorleif Björnsson á Reykhólum og Einar Björnsson á Bæ á Rauðasandi, og eru þrír nafngreindir: Herman Mylnar, Mattheus Hening Skradd-

ari og Diðrik Byrning, — allt Þjóðverjar eftir nöfnum að dæma. (D. I. VI. nr. 461.)

Þann 17. ágúst 1484 vitna fjórir Íslendingar, að þeir hafi heyrt „soddan rykti og orðtak af öllum almúga á Íslandi“, að enskir kaupmenn frá Byrstofu (Bristol), er lágu fyrir Bátsendum og guldu sekkjagjöld, hafi verið sviknir „í réttri trú“ af Pining, Heinrik Meding, fógeta hans, Pétri skyttu, Loðvíki og fleirum.

Þar eftir kom skip frá Hyl (Hull), en af því fóru kaupmennirnir Tumas Bucklari og Jacob Spencer á fund Pinings til þess að fá hafnir, en hann lét skammfæra þá og bískattaði af þeim 40 hálfstykki klæðis, c stykki lérefts og 7 duflaðar húfur. Þar eftir kom skip frá Lundun (Lundúnum) til Vestmannaeyja, og tók fógeti Pinings af kaupmönnum sekkjagjöld og veitti þeim leyfi til verzlunar, hvar sem þeir vildu í landinu. Þegar þeir komu til Grindavíkur, voru þeir sviknir og kúgað af þeim allt, sem var í skipinu: klæði, léreft og salt, en skip frá Lybiku varð að leysa þá út með lest af öli, lest af mjöli og lest af smjöri. Fjórir bændur í Vesmannaeyjum reyndu að ganga á milli og fá Pining til þess að láta af hendi minna skipið tómt, sem tekið var við Bátsenda, en árangurslaust. Reyfuðu þá Englendingar allar Vestmannaeyjar og víða annars staðar. „Svo og heyrðum vér sagt, að menn Pinings hefðu farið óspaklega nú í sumar bæði um kvennafar fyrir utan þeirra vilja og svo um peninga bændanna fyrir utan þeirra vilja.“ (D. I. VII. nr. 12.)

Þann 21. maí 1485 ritar Ríkarður III. Englakonungur ráði Hamborgar og biður það að misvirða ekki dóm þann, sem felldur hafi verið út af ránum á þrem enskum skipum síðastliðið vor við Ísland, dómurinn hafi verið mildaður og Hamborgarar muni ekki sýknir af sökinni. (D. I. X. 31.)

Fyrir 9. marz 1486 kæra kaupmenn, skipstjórar og borgarar hafnarbæja á Englandi til konungs og parlamentisins, en þar segir m. a., að Þjóðverjar hindri nú allar siglingar Englendinga til Björgvinjar og Íslands, en þangað komu þeir ekki að fornu, en Englendingar höfðu þar öll viðskipti, en nú kemst ekkert enskt skip þangað án mikils háska og ævintýra, því að Þjóðverjar veita þar Dönum gegn Englendingum, eins og sannað er í ráði konungs. (D. I. XI. nr. 34.)

Þann 14. marz 1486 rita þýzkir kaupmenn í Lundúnum ráði í Danzig þess efnis, að enskir kaupmenn í Lundúnum, Jórvík, Lynn, Hull og fleiri borgum hafi sent konungi og parlamenti mikil kæruskjöl á hendur Þjóðverjum, og biðja þá aðila að staðfesta ekki forréttindi og fríheit Þjóðverja til verzlunar í Englandi, fyrr en bætur séu komnar fyrir brot þeirra, en enska stjórnin hafi tilkynnt þýzkum Lundúnakaupmönnum, að Hansa-

menn hafi margbrotið Utrechtsamningana. Einnig hefur Englakonungur skýrt þeim persónulega frá því, að Pining og Pothorst lægi í víking á fjórum eða fimm skipum, sem væru gerð út af „oss“ (Hansamönnum), en þau tækju þegna hans og aðra og gerðu þeim tjón. Þjóðverjar svara konungi, að þeim væri ókunnugt um þá útgerð og Pining sé höfuðsmaður Danakonungs á Íslandi og óstuddur af Þjóðverjum, og lét hann þá endurnýja einkaleyfi þeirra og fríheit. Engu að síður óttast þeir mjög um líf og eignir, ef Pining ræðst á eða tekur ensk skip, því að Englendingar hafa daglega í hótunum við þá, og biðja þeir því Danzigráð að friðmælast við konung. (D. I. XI. nr. 35.)

Þann 28. apríl 1486 rita sendifulltrúar Hansaborganna í Vindlandi og ráðið í Lybiku ráði í Danzig þess efnis, að fulltrúar Björgvinjarkaupmanna í Lybiku hafi kært, að kaupmenn frá Danzig og öðrum Hansaborgum sigli af nýju til Íslands og Færeyja, en sú sigling er til mikils skaða fyrir Björgvin og norska ríkið og er bönnuð frá Hansaborgunum. (D. I. XI. nr. 36.)

Snemma sumars (maí—júní) 1487 fjallar Hansaráð enn af nýju um það, að verzlun Hansaborga sé óþolandi Björgvinjarkaupmönnum og Danakonungi. (D. I. XI. nr. 37 og 38.)

Þann 11. febrúar 1489 svarar ráð Lybiku ráði Wismars upp á fyrirspurn, að skipi, sem átti að halda frá Lybiku til Íslands, sé ekki leyfð brottför, en hins vegar muni Hamborgarar ekki láta af Íslandssiglingum, en fara þess á leit, að frestað sé Íslandsförum til næsta fundar fulltrúa Hansaborga á Vindlandi. (D. I. XI. nr. 40.)

Þann 12. marz 1489 ályktar Hansaráð enn einu sinni um verzlun á Íslandi, Hjaltlandi og Færeyjum, að hún sé til stórtjóns fyrir Björgvin. Sendifulltrúar Rostokks, Stralsunds, Wismars, Luneborgar og ráð Lybiku ályktа, að ekki sé siglt til Íslands frá borgum sínum, ef Hamborgarar láti þær siglingar niður falla. Fulltrúar Hamborgar lofa að flytja þetta mál við ráð borgarinnar, og var ákveðið að skrifa til Brima um málið. (D. I. XI. nr. 41.)

Þann 25. júlí 1489 býður Hinrik VII. gjaldkera sínum að reiða af höndum fararefni handa Jacobusi Hutton lögspekingi, Thomasi Clarencieux aðalsmanni; Thomasi Carter og Johannesi Beles, kaupmönnum frá Lynn, en þeir eiga að halda til Danmerkur til samninga. (Regesta Dipl. Hist. Danicæ, Ser. Sec. I. 2. bls. 975.)

Þann 6. ágúst 1489 er erindisbréf ensku samningamannanna, sem áður getur, gefið út í Westminster, en þar er þeim gefið fullt umboð til bindandi samninga af konungs hálfu. „Promittentes, bona Fide & in Verbo Regio, omnia & singula, que per præfatos Commissarios, Procuratores, Deputatos, & Nuncios nostros prædictos Appunctuata, Promissa, Concordata, & Conclusa fuerint,

in hac parte, Nos Rata, Grata, & Firma habituros & observaturos, & superinde Literas nostras Patentes Novas aut Confirmatorias, Ratificatorias, & Approbatorias, in forma debita & autentica, prout opus fuerit, daturos.“ (Foedera, XII. b. bls. 374.)

Sama dag (6/8 ’89) semur Hinrik VII. einnig drög að friðar- og vináttusamningi, sem erindrekarnir hafa sennilega haft meðferðis, en hér er ekki um sérstakan samning að ræða, eins og Ræstad gefur í skyn (Kongens Strömme, bls. 82.) (Sjá Regista Dipl. Hist. Dan. I. bls. 549.) Í fyrstu grein uppkastsins segir, að samningurinn taki gildi 1. marz n.k., og mun þar átt við, að sendimenn eigi að hafa náð samningi við Danastjórn fyrir þann tíma, en samningar takast í Kaupmannahöfn þann 20. jan. 1490, eins og kunugt er. Uppkast Hinriks VII. er í 13 greinum, en endanlegi samningurinn 30, og gefur það nokkurt hugboð um, hvernig samningar hafi gengið. Í uppkastinu er hvergi minnzt á Ísland og fiskveiðar beinum orðum, en þar er allmjög fjallað um verzlun. Þriðja og fjórða grein uppkastsins er svohljóðandi:

Item omnes gentes nostri utriusque Regni vicissim, per Mare Flumina, Aquas dulces & salsas quascumque, Navigare, Portus, Regna, Terras, & Dominia Intrare, ac in omnibus & omnimodis Portubus, Civitatibus, & Villis Regnorum, Terrarum, & Dominiorum nostrorum prædictorum, ac cum quibuscumque Hominibus cujuscumque Nationis, Ritus, seu Conditionis fuerint, Mercandisare poterint: solutis Custumis & Theoloniis solvi consuetis.

Item, omnes Mercatores & Subditi Regni nostri Angliæ, in Regnis, Terris, & Dominiis Confratris nostri Regis Daciæ, ac, vice versa, Mercatores, Homines, & Subditi dicti Regis Daciæ Confratris nostri, in Regno & Dominiis Regni nostri Angliæ, omnibus & singulis Privilegiis, Libertatibus, Franchesiis, & Liberis Consuetudinibus uti plene & Gaudere debent & possunt, prout ante hæc tempora usi sunt & Gavisi. (Foedera XII. b. bls. 375.)

Þessar greinar eru teknar lítið eitt auknar í samninginn 20. janúar, önnur og þriðja grein hans, en bætt við fjórðu greininni þess efnis, að enskir kaupmenn, fiskimenn og allir aðrir þegnar Englakonungs megi sigla óhindrað til Íslands til verzlunar og fiskveiða að eigin geðþótta, að því tilskildu, að þeir greiði á eyju þessari eða höfnum hennar skylda tolla og skatta og afli sér siglingaleyfis á sjöárafresti hjá Danakonungi. Einnig er 16. greinin ný í samningum, en þar segir m. a., að Danakonungur skipi einn eða fleiri umboðsmenn í Björgvin, en ekki á Íslandi, til þess að innheimta og safna tollum og sköttum af téðri eyju, og skulu þeir vera af dönsku eða norsku þjóðerni. (D. I. VIII. nr. 72, Regeste. Dipl. Hist. Dan. I. bls. 550, A. Ræstad: K. Str. bls. 82; Foedera, XII. b. bls. 382.)

Þann 28. marz 1490 veitir Hans I. verzlunarstöðum í Hollandi, en einkum Amsterdam, rétt til verzlunar í ríki sínu, sérstaklega í Björgvin, Hjaltlandi og á Íslandi — með sömu skilyrðum og öðrum Hansamönnum í Þýzkalandi. (D. I. VI. nr. 605.) Í þessu réttindabréfi finnst ekkert ákvæði um það, að hollenzkir kaupmenn þurfi að sækja um leyfi til konungs til verzlunar á Íslandi, en eftir því að dæma er þeim jafnfrjáls verzlun við Íslendinga og Björgvinjarmenn.

Þann 2. maí 1490 staðfestir Hinrik VII. samninginn, sem gerður var í Kaupmannahöfn 20. jan. s. á. (Forty-fifth Annual Report of the Deputy Keeper of Public Records, London 1885, Appendix II. bls. 6.)

Á alþingi sumarið 1490 er Íslendingum birtur samningur konunganna frá 20. jan. s. á., og voru þá lögmenn og lögréttumenn tilkallaðir af Diðrik Pining, höfuðsmanni yfir öllu Íslandi, „að dæma og skoða, hvern frið að útlenzkir kaupmenn skulu hafa hér í landið“. Þá var hinn svokallaði Piningsdómur settur, en þar segir m. a., að enskir menn megi sigla til landsins að frjálsu með réttan kaupskap og falslausan, en hvergi er minnzt á, að Englendingum sé frjálst að fiska við Ísland, eins og greint er í samningnum. Íslendingar taka sér því rétt til þess að breyta honum og láta sömu réttarreglur haldast um þetta atriði og ríktu fyrir 1490.

Í Piningsdómi segir enn fremur, að Þjóðverjum sé eigi síður frjálst að verzla hér, hafi þeir bréf konungs fyrir sér og fari með réttum kaupskap, en hver sé sekur 13 mörkum, reki hann falska verzlun. Þýzkum og enskum er boðið að halda frið sín á milli, en ekki sé skipt við friðspilla; lagt er bann við vetursetu útlendinga, auk annars sem skjalið greinir. (D. I. VI. nr. 617.) Tvær afskriftir Piningsdóms eru varðveittar í ríkisskjalasafni í Hamborg, annað lágþýzk þýðing, en hitt íslenzk gerð, talin frá því um 1530—40. (Skrá G. J. á Lbs.)

---

## 236. 6. apríl 1491.

HINRIK VII. svarar málaleitunum jarlsins af Oxford þess efnis, að allar duggur og fiski-„smacks“ úr þeim héruðum (sennilega Norfolk og Suffolk) fái konungsleyfi til þess að sigla að venju til Íslands og jarlinn skuli ábyrgjast, að þau flytji ekki meira korn en þeim sé nauðsynlegt. Konungur svarar á þá leið, að Danakonungur hafi tjáð sér í ýmsum bréfum, að enskir þegnar steli, ræni og kúgi þegna sína á Íslandi, þegar

þeir komi þangað. En ábyrgist duggararnir fyrir jarlinum að flytja hvorki með sér meira korn en þeim er nauðsynlegt til matar né aðra hluti og heiti að ræna hvorki né rupla á Íslandi, en greiði svo að ánægi fyrir það, sem þeir þurfa, þá veitir konungur þeim siglingaleyfi.

Prentað i: The Reign of Henry VII. eftir A. F. Pollard, London 1914, II. b. bls. 253. „Paston Letters“ III. nr. 922.

Henry VII. to the Earl of Oxford,
the Iceland fishing trade.

Ryght trusty and ryght welbelowed cousyn we grete you well etc. In that ye desyer all the dogers [fishing smacks] of thos partes schuld have our licens to depart in the viage towardes Islond, as they have ben accustomyd to do yerly in tyme passyd, and that ye woll undertak they shall have with them no more quantities of graynes then woll only suffice for ther vitallyng and expensis; we late you witte that owr fully interly belovyd cousyn the Kyng of Denmarke, hath showyd and compleynyd un to us by dyverse his letters, that when our subjectes come to the seid Iselond, beyng in hys obeissiance, they stelle robbe, and exstorte his subjectes ther ageynse ryght and conciens. wherfore the seyd doggeres fyndyng sufficient surte be forne yow, such as ye will answer unto us, that they shall not have with them no graynes mor then shall only suffice for ther vitallyng, nor odyr thyng woth them that ys for bedyn, and that also they shall not in goyng, comyng, nor in ther beyng at the seyd Islond, take nov thyng but that they treuly pay or agre for, and frendly entret our seyd consyns subjectes withowth eny robbyng or exstartyng them in there bodyes ner goodys; we be content the seyd doggers make ther viages thedyr at ther libertes, eny our wrytyng or comandment mad to the contrary not withstandyng; and ellys we woll that our restraynte of ther thedyr goyng stond styll in his strenthe and vertu.

---

237. 10. apríl 1491.

JOHN VERE, jarl af Oxford og aðmíráll Englands, felur John Rowe, marskálki við flotamálaráðuneytið, að framfylgja konungsbréfinu frá 6. apríl og kyrrsetja allar duggur, þangað til jarlinn hefur tryggt ferð þeirra og framferði áhafnanna samkvæmt boði konungs.

The Reign of Henry VII. eftir A. F. Pollard, London 1914, II. b. bls. 254.

The Earl of Oxford's commission for the execution of the King's command.

John Ver, Erle of Oxynford, Gret Chambyrleyn and Admirall of Ynglond, Viscount Bulbek, and Lord Skalys, to all them that this present writyng shall see or here, gretyng. And for asmuch as I late have recevyd the Kyng our Soveryn Lords letters, beryng date the 6th day of this monyth of Aprile, accordyng to a copy of the same, signed with myn hand, whiche my ritht trusty servant, John Rowe, Marchall of my, Admyralite hath for to showe;

Know ye that I, the seyd Erle and Admirall, have assygned and deputyd my seyd servant to see our seyd Sovereyn Lordes letters pleynly executyd accordyng to the tenure of the same, and by thys present wrytyng have yevyn to hym full autoryte and pouer to put undyr arest all such doggeres as be dysposyd to mak the viage towardes Islond, to such tyme as they have fownd surte afor me, accordyng to owr seyd Sovereyn Lordys commandment, for ther demenyng in the seyd viagys.

Snemma sumars (maí—júní) 1491 kemur Hansaráð saman í Antverpen og fjallar m. a. um rán, skaða, skemmdir og eignatjón, er Hansamenn og Englendingar hafa unnið hver öðrum m. a. á Íslandi, en þar segir, að Hamborgarar hafi hrakið ensk skip úr höfnum á Íslandi, svo að þau urðu að halda heimleiðis án þess að losa farm sinn; en borgarmeistari Hamborgar er ábyrgur fyrir þessu. Einnig var minnzt skipsins, sem átti að hafa verið brennt, en Englendingar þræta algjörlega fyrir brennusöguna. (D. I. XI. nr. 42.)

Þann 10. júní 1491 kæra enskir kaupmenn fyrir Hansaráðinu

í Antverpen, að kaupmennirnir: Robertus Michelson, Jocobus Thomlynson, eigendur skipsins Petyr frá Hull, 85 lestir að stærð, og Robertus Campan, Thomas Dalton og Johannes Welisme, eigendur skipsins Antony frá Hull, 280 lestir að stærð, — héldu skipum sínum til Íslands og tóku land við Útskála. Fjórir af kaupmönnum þessum sýndu Theodorik Pyny(n)ch, landstjóra Danakonungs, friðar- og sáttmálaskjöl, sem Engla- og Danakonungar höfðu gert milli sín og þegna sinna. Pynyng tjáir Austmönnum, sem lágu á skipum sínum við Bátsenda og í Hafnarfirði, efni bréfanna, en þeir réðust engu að síður á enska kaupmennina á sjó og landi, og ráku þá á flótta úr höfninni við Straum og meinuðu þeim fiskveiðar og öll viðskipti við landsfólkið, og meta Englendingar tjón sitt á £ 1016. Illvirkjarnir voru: Jocobus Hawmode frá Hamborg, skipstjóri á skipinu Önnu, 500 lestir að stærð, og Lutkyn Stene frá Hamborg stýrimaður, en á því var 140 manna áhöfn; Clas Semblow frá Hamborg, skipstjóri á 80 manna skipi, Dyrick Fasmere og Herman Schuthar frá Hamborg, Clas Fowlskyn frá Lybiku og Falbinere van de Wynde. (D. I. XI. nr. 43.)

---

238.

## 1492.

ÚR áritunum á hnattlíkan Martins Behaims, en hann var Þjóðverji í þjónustu Portúgala, en þar segir m. a., að á Íslandi sé fagurt, hvítt fólk kristið. Þar tíðkast að selja hunda dýrt, en gefa kaupmönnum börn, svo að þau fái brauð, sem eftir eru. Einnig finnst í þessu landi áttrætt fólk, sem hefur aldrei bragðað brauð, því að þar vex ekkert korn, en í stað brauðs etur fólk þurran fisk. Á þessari eyju er aflað skreiðar, sem flyzt til lands vors.

Islands Kortlægning, Köbenhavn 1944, bls. 12.

In eislandt ist schön weiss volkh und sindt christen, daselbst ist gewonheit das man die hundt teuer verkauft vnndt ihre kindt geben sie hinwegk den Kaufleuten umb gots willen auf dass die andern brot haben. Item in jsslandt findt man menschen von 80 jahren die nie kein brott gegessen da wechst kein korn und an brot

statt ist man dürr fisch. In der insel jsslandt fengt man den Stockfisch den man in vnser landt bringt.

Ísland er nefnt á ýmsum landabréfum frá miðöldum, en hnattstaða þess og lögun er mjög á reiki. Fyrst kemur nafnið fyrir á engilsaxnesku heimskorti frá ca 1000 sem heiti á aflangri eyju í hafinu austur af **orcades insule** (Orkneyjum), og nefnist hún **Island Scridefinnas**. Eftir legu svarar eyjan fremur til hluta Skandinavíu en Íslands. — Árið 1154 semur arabskur prins, Edrisi, skýringar við heimskort, sem hann hafði gert í samráði við Roger II. konung á Sikiley. Hann færir aflöngu eyjuna norður fyrir Skotland og nefnir hana Gazirat R[es]landa, sem allir telja ritvillu. Í skýringartexta segir svo: „Frá strönd Angilitarraeyjar til eyjarinnar D. n. s. er[1]) eins dags sigling, og frá strönd Asqusiyaeyjar í norður tekur tvo þriðju úr degi að sigla til R[e]slanda (Islanda). Milli stranda eyjarinnar R[e]slanda og strandar hinnar miklu eyjar, Írlanda, er eins dags sigling. Einnig eru tólf mílur milli stranda eyjarinnar R[e]slanda í austur til eyjarinnar Nurwaga. Lengd eyjarinnar R[e]slanda er 400 mílur, og breidd hennar 150 mílur." — Þýðingin er gerð eftir Harris Birkeland: Nordens historie i middelalderen etter arabiske kilder, Oslo 1954, bls. 72.

Á svonefndu Hereford-korti frá 13. öld eru dregnar þrjár smáeyjar milli **orcades insulee** og Noregs og nefnast: **fareie, ysland** og **ultima tile**. —

Á heimskorti, sem fylgir Polycronicon Ranulphs Higdens frá 14. öld (R. Higden d. 1363) eru ýmsar eyjar sýndar á kortröndinni, þ. á m. „**Yslandia, gens veridica rex est sacerdos**". —

Á sjókorti frá fyrri hluta 15. aldar varðveittu á Biblioteca Nazionale í Firenze sést eyjaklasi norðvestur í hafi með svolátandi texta: „Aquestas illes son apellades islandes les quals son molts grans illes ma ssos que no aparayon assi mes per tant don noy ... assi man sio jaen de ardoim vuyt... mllies son set an que na sinch poiblades, les gens son bels homens e grans e blanchs, sta terra es molt freda.'

Á árunum 1424—'27 gerir Daninn Claudius Clavus kort af Norðurhjara heims og er þá suður á Ítalíu. Það kort er varðveitt í Ptolemæusarhandriti í ríkisbókasafni í Nancy í Frakklandi. Því fylgir svolátandi texti:

Insule adiacent Noruegie hee: Islandia, cuius hec est descripcio: Eius quod magis septentrionale est promontorium 19 10 67 50. Quod inde sequitur 19—66 30. Et illo eciam vicinius sequens 19—65 30. Quod autem magis meridionale est 19—64 10. Et

---

1) Auðsjáanlega rangfærð orðmynd, en þess hefur verið getið til, að hér ætti að standa: Mona: Öngulsey eða Mannia: Mön.

quod in dorso eius est nersus occidentem gradus habet 17—64—. Et aliud iam prodictum sequens promontorium in eadem parte 17—67—.

Sunt autem in hac insula ciuitates mediterranee hee: Hollensis 18—65 20; Scalotensis 18—67—.

In hac enim insula equi omnes sunt gradarij, parui et albi et ipsi ad modum feni commedunt pisces exiccatos.

Frá árunum eftir 1460 eru varðveitt nokkur kort í tveimur gerðum. Þau eru talin runnin frá nú glötuðu korti, sem Claudius Clavus á að hafa gert á árunum frá 1430—'39, en það ár er kort eftir Clavus í höndum hins kunna landfræðings Toscanellis. Honum var handgenginn kortagerðarmaðurinn Nicholaus Germanus, og í afritum hans hefur síðara kort Clavusar varðveitzt. Af einhverjum orsökum eru þau af tveimur gerðum, enda var þekking manna á Norðurlöndum mjög á reiki á 15. öld. Í riti Dana Bennett Durand: The Vienna-Klosterneuburg Map Corpus of the Fifteenth Century, Leiden, 1952, bls. 259, segir: In a passage from a commentary on Strabo the distinguished Greek scolar, Gemistus Pletho, states, that while present at the Council of Florence in 1439, he had been shown a copi of a map of Scandinavia.[1]) The author of the map was Claudius Clavus, and its owner was Toscanelli." — [1]) Cf. A. Diller, „A geographical treatise by Georgius Gemistus Pletho", Isis, XXVII (1937), 447—451. — Hinu glataða korti Clavusar hefur fylgt svo látandi „Íslandslýsing" frá suðri":

Descripcio Yslandie meridionalis.

| | Longitudo | | Latitudo | |
|---|---|---|---|---|
| Synt promontorium ........................ | 22 | 40 | 63 | 20 |
| Oos fluuii ostia ........................ | 22 | | 63 | 20 |
| Thoos promontorium ........................ | 21 | 40 | 63 | |
| Laycher fluuii ostia ........................ | 21 | 30 | 63 | 20 |
| Tiir promontorium ........................ | 21 | | 63 | 25 |
| Stongen yys fluuii ostia ........................ | 21 | 20 | 63 | 40 |
| Knesol promontorium ........................ | 21 | | 64 | |
| Haffthoos fluuii ostia ........................ | 21 | 30 | 64 | 25 |
| Hauol promontorium ........................ | 21 | 5 | 64 | 40 |
| Hollensis ciuitas ........................ | 21 | 30 | 65 | |
| Madher promontorium ........................ | 21 | 20 | 65 | 10 |
| Nadher ........................ | 22 | | 65 | 25 |
| Ar fluuii ostia ........................ | 22 | 20 | 65 | 20 |
| Bierken promontorium ........................ | 22 | 40 | 65 | 20 |
| Conus promontorium ........................ | 22 | 50 | 65 | |
| Doos fluuii ostia ........................ | 22 | 40 | 64 | 45 |
| Eeyr promontorium ........................ | 23 | | 64 | 40 |
| Yys fluuii ostia ........................ | 22 | 40 | 64 | 30 |
| Soolh promontorium ........................ | 23 | 20 | 64 | 20 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Reynd fluuii ostia | 23 | | 63 | 40 |
| Scalotensis ciuitas | 22 | 20 | 63 | 35 |
| Wr promontorium | 22 | 40 | 63 | 25 |
| et habet 14 insulas in gyro facientes bonos portus. | | | | |
| Insula Byórnó inter Grolandiam et Yslandiam | 17 | 25 | 63 | 30 |
| Inter Yslandiam et Norbegiam Farreóó insula et ciuitas cuius gradus | 26 | 25 | 64 | 25 |
| Alia parua insula | 25 | 5 | 64 | |

Nota: ista nomina sicut Oos sunt nomina litterarum gotticarum et non locorum.

Nöfnin útleggjast þannig: nes: Sun, Þurs, Týr, Knésól, Hagall, Maðr, Nauð, Bjarkan, Kaun, Ýr, Sól og Úr; ósar: Óss, Lögr, Stunginn íss, Hafþurs, Ár, Þurs, Íss, Reið og borgirnar Hólar og Skálholt. Við Ísland eru 14 eyjar, sem gera góðar hafnir.

(Codex Vindobonensis latinus 3227; A. A. Björnbo og C. S. Petersen: Der Däne Claudius Claussón Swart, Innsbruck 1909, bls. 146—147.)

Sjá N. E. Nörlund: Islands Kortlægning, Khöfn 1944, bls. 9—11; — um engilsaxneska kortið sjá: J. Strutt: The Chronicle of England, London 1778, vol. II., tab. XIII; R. Beazley: The Dawn of Modern Geagraphy. London 1901, Vol. II, bls. 559—'63; K. Miller: Mappaemundi — Die ältesten Weltkarten, Stuttgart 1895, tab. 10, bls. 29—37; Þ. Thoroddsen, grein í Geografisk Tidskrift 10, 1890, bls. 122; — um arabska kortið sjá: F. Nansen: Nord i Tåkeheimen: Kristiania 1911, bls. 437—38'; H. Hermannsson: Islandica, vol. XXI, The Cartography of Iceland, New York 1931, bls. 4—6; — um Hereford-kortið sjá: Beavan and Phillot: Mediaeval Geography, an essay in illustration of the Hereford mappa mundi, London 1874; Jomard: Les monuments de la géographie, Paris 1855—62; Mappaemundi IV, Stuttgart 1896; — um kort Ranulphs Higdens sjá: Santarem: Essai sur l'histoire de la cosmographie, Paris 1849—'52; K. Miller; Mappaemundi II., tab. 15, III., bls. 94—109; — um Flórenz-kortið sjá: A .A. Björnbo og Carl S. Petersen: Anecdota cartographia septentrionalia, Hauniae 1908, bls. 16; — um Claudius Clavus og kort hans sjá auk áður tilvitnaðs rits þeirra Björnbos og Petersens um Claudius Clavus: Björnbo: Cartographia Groenlandica, Khöfn 1912; G. Storm: Den danske Geograf Claudius Clavus eller Nicolaus Niger, Ymer 1889—1891; Poggii Epistolæ, útg. af Thomas de Tonellis, Florentiae 1832, bls. 104; Memoire sur deux monuments geographiques conservé's à la bibliothèque de Nancy, Memoires de la société royale des sciences, lettres et arts de Nancy 1835, Nancy 1836; A. E. Nordenskiöld: Trois cartes précolumbiennes représentant une partie de l'Amérique (Groenland), Stockholm 1883; sami,

Facsimile-Atlas till kartografiens äldsta historia, Stockholm 1889; sami, Bidrag till Nordens äldsta kartografi, Stockholm 1892: Jos. Fischer: Die Entdeckungen der Normannen in Amerika, Freiburg 1902; Þ. Thoroddsen: Landfræðisaga Íslands 1, Rvik 1892—'96, bls. 83—93.

Eftir þetta eykst litið Íslandsþekking landfræðinga á 15. öld, þótt nafnið komi nokkrum sinnum fyrir á landabréfum. Á korti frá 1436 eftir Andrea Bianco, geymdu í Feneyjum, er eyja við Noreg vestur af Þrándheimi og nefnist „ya Rouereha" og auðkennd með orðinu „stoefis". Sumir telja, að þar örli á vitneskju um Ísland sem fiskveiðistöð, þó hitt sé fullt svo líklegt, að nafnið megi rekja til ferða Ítalans Querini um Noreg 1432. — Islands Kortlægning bls. 11; A. E. Nordenskiöld: Studier och forskningar föranledda af mina resor i höga norden. Stockholm 1883, bls. 37—38, Þ. Thoroddsen: Landfr. s. Íslands I., Rvik 1892, bls. 93. — Á heimskorti frá miðri 15. öld, varðveittu í Biblioteca Estense í Modena, er Ísland sett suðaustan til í eyjaklasa með áletruninni: „Questas illes son appellades islandes", en eyjarnar nefnast: donbert, cales, tranes, brons, bres, minant og bicam. Fyrirmynd þessa korts er talin sjókortið í Biblioteca Nazionale í Flórenz eða skyldir uppdrættir. Nöfn eyjanna eru auðsæilega dregin af enskum staðaheitum og vörutegundum, t. d. Calais, brons, bras, tran (lýsi) o. s. frv. — Islands Kortlægning, bls. 11, H. Hermannsson, Islandica, 1931, bls.12. — Á heimskorti hins mikla landfræðings Fra Mauro varðveittu í Doge-höllinni í Feneyjum, en kortið er gert 1459, gengur skagi norðvestur úr Noregi og nefnist Islant og fylgir þar svolátandi klausa: „in questo luogo habitano mali homini e non sons christiani." Eyja vestur af Noregi nefnist „Isola di giaza" (ís-eyjan), en norðvestur af Írlandi liggur stór eyja Ixilandia með nöfnunum goeliuch, nodiforde og bodeal; en af þeim nöfnum verður ekkert ráðið, fyrsta sennilega írskt, og hin tekin eftir einhverjum siglingaleiðarlýsingum. — Islands Kortlægning, bls. 11—12; T. G. Leporace: Il Mappamondo di Fra Mauro, Instituto poligrafico dello stato (Róm 1956), tav. XXXVI og XLI; Þorv. Thoroddsen: Landfræðisaga I. bls. 93—94.

Árið 1482 kemur út í Ulm landafræði Ptolemæusar eftir handriti Nicolausar Germanusar. Á meðfylgjandi Norðurlandakorti er Ísland sett norðvestur í hafi og merkt á það nokkur rúnanöfn og Hollensis (Hólar), en Skálholt vantar. — Danmarks Kortlægning, Khöfn 1943, bls. 13, tabl 5.

Þetta eru helztu staðir, þar sem Íslands er getið á landabréfum og meðfylgjandi skjölum fyrir 1492, en þá verða þáttaskil í landfræðiþekkingu manna. Þegar í fornöld uppgötvuðu menn, að jörðin væri hnöttur, og lifði sú þekking hjá einstökum lærdóms-

mönnum eins og m. a. kemur fram í íslenzku rímtali frá 12. öld: „Quaðrantur er því beygður eftir kumpasi, að jarðaryfirbragð er böllótt; það má svo prófa. Stjörnur renna upp og setjast að sama hætti öllum mönnum þeim, er jafn fram byggja á jörðunni, en þó sjá þeir fyrr kvelds hina sömu stjörnu, er austar byggja á jörðu, en síðar þeir, er vestar byggja. Það má og líta, að eklipsin er ein og hin sama, er oss sýnist á hinni fyrstu stundu nætur og þeim vitrast á hinni 3. stundu nætur, er austur við hafið byggja, og af því má marka, að þar var fyrri nótt og sól settist þar en með oss. En sök þess er þrotnan jarðar og bugur sá, er í milli vor er. Jarðar yfirbragð er böllótt á sömu leið af norðri til suðurs, sem prófa má. Stjörnur þær, er nær eru leiðarstjörnu, birnur og dreki og aðrar þvílíkar, ganga aldei undir með oss og þeim mönnum, er í norður álfu búa. En í Blálandi eða Arabia ganga hinar stjörnur á hverjum tveim dægrum undir orizontem þeirra; þar í móti sjá þeir til suðurættar þær stjörnur jafnan, er oss virðast litla stund og skjótt ganga undir vorn orizontem. Veldur því, sem áður er sagt, sá bugur jarðarinnar, er vor er í milli.

Hafið og vötnin liggja að jörðu sem lindar og halda svo böllöttu yfirbragði með jörðu sem prófa má. Settu hafnarmark, hátt tré eða vörðu á einhverja strönd; róðu síðan undan landi, þar til er þú mátt eigi sjá það hafnarmark; far síðan upp í siglutopp, og mun þá upp koma nokkur hlutur af því hafnarmarki, því að þá ber þig hærra en í skipinu, og sér þú þá yfir bug vatnsins, þann sem verður milli þín og hafnarmarks. En ef vatn væri slétt og óbjúgt, þá sæir þú ið sama mark lengur niðri á skipinu en uppi á siglutoppi, því að það er nær ströndu," o. s. frv. — Á millum Björgvinjar og Niðaróss eru nær 4 gráður. Þá verður ein gráða nær tylft sjávar. Í viku sjávar eru 583 staðia og triens staðii, það eru 72916 passus og þrjú fet og þriðjungur fets. En jafnmikið er gráða á jörðu og tylft sjávar, en 11 tylftir ein dagsigling. Þá verður um quaðrant jarðar 45 dagsiglingar, en í kringum jörð er meiginhaf 180 dagsiglingar. — Alfræði íslenzk, II rímtöl, Khöfn, 1914—'16, bls. 104—105 og 125.

Á síðari hluta 15. aldar taka landfræðingar að grafa upp þennan forna fróðleik, og 1474 lýsir Toseanelli yfir því, að auðveldast muni að komast til Indlands með því að sigla vestur yfir hafið, og talið er, að Kólumbus hafi haft hnattlíkan meðferðis, er hann fann Ameríku 1492. Frá því ári er elzta hnattlíkan, sem varðveitzt hefur, gert af Martin Behaim. — Islands Kortlægning, Khöfn 1944, bls. 12.

Þann 5. júní 1494 er samþykkt af Hansaráði í Bremen, að enginn frá Hansastöðunum skyldi sigla til eylanda, sem nefnast Orkneyjar, Hjaltland og Færeyjar, til þess að reka þar kaupskap, útgerð eða viðskipti, — að viðlögðum réttindamissi innan sambandsins, en **Ísland er ekki nefnt, svo að hér eftir virðist**

Hansamönnum frjálst að stunda siglingar hingað, en Björgvinjarkaupmenn mótmæla síðar. (D. I. XI. nr. 47 neðanmáls.)

Þann 26. júní 1497 kæra Hansamenn tjón, sem þeir hafi beðið af hálfu Englendinga m. a. á Íslandi, en þar eiga allmargir Englendingar að hafa tekið skipara frá Lybiku til fanga og kært fyrir „hinu háa ráði“ mál, sem á að hafa gerzt á Íslandi, og knúið út £ 10 borginni til tjóns. — Einnig varð skipari frá Hamborg að greiða £ 200 þetta ár til þess að halda höfn á Íslandi, því að hann átti að hafa meinað Englendingi höfn á Bátsendum, og var þetta viðurkennt. (D. I. XI. nr. 46.)

---

239. 21. október 1497. London.

RAIMOND de Raimondi di Soncino, sendiherra hertogans af Milanó, ritar heroganum, Ludovico Maria Sforza, fréttabréf, en þar segir hann m. a., að nýlega hafi borizt þau tíðindi til Þjóðverja í Lundúnum, að þann 14. sept. hafi 90 skip þeirra farizt við Íslandsstrendur, en þau voru með dýrmætan farm, sem átti að flytjast til Englands. „Það er sagt, að um 3000 lík hafi rekið á fjörur“.

Cal. St. P. existing in the archives of Milan, I. b., London 1912, bls. 331—332. Þar er skjalið birt í enskri þýðingu, en frumritið er á ítölsku á skjalasafni í Milanó Patenze Esere Inghilterra.

Þann 18. des. 1497 ritar Raimond de Raimondi di Soncino, sendiherra hertogans af Milanó, honum fréttabréf um landkönnunarferð Johns Cabots, en segir þar m. a., að hafið við (Nýfundnaland) sé morandi af fiski, og þaðan muni flytjast svo mikið af þeirri vöru til Englands, að Englendingar þurfi ekki framar Íslands við, en þar er afarmikil verzlun með fisk, sem þeir kalla „stochfissi“. (D. I. VII. nr. 397.)

Þann 15. febrúar 1498 kæra kaupmenn í Lynn fyrir Hinrik VII. margs konar ofbeldisverk unnin á sér af Hansamönnum í Björgvin, hús þeirra eru brennd, eignir eyðilagðar, lífi ógnað og mörgum fiskimönnum frá Crowemere og Blakeney í Norfolk drekkt o. s. frv. — Í tilefni af þessu ritar síðan Hinrik VII. öldurmönnum í Björgvin (Forty-Fift Annual Report of the Deputy Keeper, London 1885, Appendix II. bls. 6.)

Þann 5. apríl 1498 rita Björgvinjarkaupmenn Hansaráði í Lýbiku og minna það á Brimarsamþykktina frá 5. júní 1494, en

samkvæmt henni sé Hansamönnum óheimil sigling til Hjaltlands og Færeyja, en ekki til Íslands, en kvarta undan, að þetta ákvæði sé þverbroið. (D. I. XI. nr. 47.)

Þann 28. maí 1498 ályktar Hansaráð, að Brimarsamþykktin um verzlun við eylöndin skuli haldast, og hver, sem brýtur hana, missa réttindi sín innan sambandsins. (D. I. XI. nr. 48.)

---

240. 5. marz 1499. Greenwich.

DE PUEBLA ritar Ísabellu drottningu af Spáni og sendir henni bréfaböggul með enskum sendiboða, Thomasi Buxer að nafni, en sá var þjónn landstjóra prinsins af Wales og vildi gjarnan ganga í þjónustu drottningar. Á s.l. ári var Thomas þessi sektaður um 150 dúkata fyrir að flytja hval og þorsk á skipi sínu frá Íslandi til San Sebastian, og biður de Puebla drottningu að sjá til þess að sektin falli niður.

Bréf á spænsku S. E. T. c. I. L. 2. Útdráttur í enskri þýðingu birtur í Cal. State Papers, Spanish, London 1862, II. b. bls. 202, nr. 233.

Sumarið 1499 semur Hansaráð í Danzig skýrslu um samninga við Englendinga í Brügge, en þar er m. a. minnzt á „mikið góss, eins og fisk, sem fluttur er með miklu erfiði frá Íslandi." (D. I. XI. nr. 49.)

---

241. Um 1500.

ÚR handbók kaupmannsins (The Noumbre of weyghtes), en þar getur helztu vörutegunda fluttra frá Íslandi eða til þess.

B. M., Cott. Vesp. E. IX. bl. 99 bak.

Island

The cheffe merchaundyse in Iseland ys stokefysih and Wodemole and oyle; and good merchaundyse from hens thedyr the course Ynglysche clothe coloured, mele, malte, bere, wyne, Salettes, gauntlettes, longeswerdes.

lynon cloth and botounes of sylver, awmbyr bedes, knyves and poyntes, glasses and Combys etc.

---

242. 4. apríl 1500. **Hamborg.**

STOFNSKRÁ Íslandsfara bræðralags, nefnt St. Anna Íslandsfari. Hermannus Meyger doktor theol., Ludolphus Lemmeke prior, Gerardus Twelhoff supprior og allir aðrir bræður af prédikarareglu St. Johanns klausturs i Hamborg og tíu nafngreindir og allir aðrir kaupmenn og félagar Íslandsfarafélagsins stofna bræðralag nefnt St. Anna Íslandsfari guði til dýrðar, hans ljúfu móður Maríu, og einkum ljúfum verndardýrlingum, St. Önnu, Þorláki og Ólafi, ásamt öðru, sem bréfið greinir.

Ríkisskjalasafn Hamborgar, frumbréf á skinni nr. W. 50. Fyrir bréfinu eru þrjú innsigli heil og ósködduð. Birt eftir samanborinni skrá Guðbrands Jónssonar, Lbs.

In godes namen Amen Witlick sij alle den Jennen de dusse schriffte zehn edder horen lezen dat wij Hermannus meyger jn der hilligen schrifft doctor vicarius ludolphus lemmeke prior Gerardus twelhoff supprior vnnd alle ander broder prediker orden Sunte Johans klosters bijnnen Hamburg mit der Ersamen menner Henningk Rauen hinrick vramen hans help hans hobingk hinrick van wynsen hinrick Runneherd kersten lubben detleff honesschen Bernd engelken Euerd smijd vnde allen andern kopluden unde guden gezellen der gesellschop de Jslandesfarer. So se vth milder herten weren bewagen Gode almechtich vnndė sijner benedieden leuen moder marien tho laue vnnde tho eren unde sundergen der leuen hillighen patronen sunte Annen Tharlacj unde Olaui to troste der leuendigen vnde doden to frunderi(n)dde vnnde to steftende ene Broderschupp genannt sunte Annen der Iszlandesfarer sint auereijngekommen Jn dusse wnse Jnterste hebben wij ere milden andacht vnde gude herten mit wolbedachten mode

vnnde Rijpen Rade to sijnne genomen vnnde en vorlouet geguneth vnde bestedighet vorlouen gunnen vnde bestedigen en Jegenuerdige Jn krafft dusses breues eijn Altar int enem Rume belegen tuschen den veer pileren de vtersten in vnser keryken Jnt Nortwesten mit ener frijhen grafft dar Jn se mogen lathen begrauen alle de Jenne de ere grafft aldar begehren vnnde Jn ere Brodersschup horen welker altar vnnd Rum de Olderöude der brodersschup mit vulbord vnnses priors tor ere gadens mogen tzijren flijhen vnnde schichen na erem willen auerst muren fenster vnde dagk schal holden vnnse kloster vnde betern wannerdat is von noden wij scholen vnnde ok neue tzijrheid grafft edderstene darjnne hebben edder leggen lathen Jn allen tokamenden tijden Jd sij mit der brodersschup willen vnnde vulbord vppe dat denne sollicher angehauen brodersschup haluen de almechtigr god mit sijnen vtherkorn moge gelauet vnde gebenediet de leuendigen vnde doden getrostet werden hebben wij nach bede willen vnnde begerte der erbenaten olderlude vnde gemenen broder en gelauet vnde togesageht so wii Jegenwardighen dhon alle weken twe missen de ene des Mandages Jn de ere alle Cristen zelen de ander des dinghstages In de ere der hillighen frouwen sunte Annen to ewighen daghen to hollende Jedoch hoghe feste vnnde noth vthgenommen darto Jewelikes Jares Twe begengknisse mit vigilien vnde zelemissen Nomliken de ene vmmetzend mitfasten wanner de Schiper von hijr na Jssland gedengken to segelende vnnde de ander des mandages vor sunte Andreas daghe So verne up densuluen dagh Sunte Katharinen dagh nicht en queme Anders up den dinghstagh dar na Alle Christen zelen vnde sunderge allen vth dusser brodersschup verstoruen to hulpe vnnde troste to hollende Ock schal men Jn allen festen vnde Sondagen bij namen vth dusser brodersschup verstoruen vor dem Sermone gedengken vnnde god almectigh truweliken to biddende hijr to maken wn alle de Jenne de Jegen-

wardigh Jn dusser Brodersschup sijn vnnde noch dar Jn kamende werden mede delhafftich aller guden wergke De god almechtich durch vns vnde alle vnnse Nakomelinge vnnses Closters dagh vnnde nacht to ewighen tijden leth gescheen Alse denne de erben vnnse guden frunde bauenchreuenn de gude willen vnde truwe toueginge bauenschreuen hebbn gezeen vnde gemergket sint se worden bewagen vnnde to sijnne geworden dat se vp dat sulche godesdinste Jn bestendlichem vnde ewighen wesende bliuen mogen vnnsz vnnsem klosters vmme godes willen Jn reden gelde hebben gegeuen vnnde togekeret vijfvndesouentich margk peningh Darto schollen vnde willen vns de Olderlude der brodersschup alle der geuen voffteijn m(a)r(g)k peningk de alle Jar vppe de tijde der begengknisse bauenschreuen to betalende de wijle se den houetstoll nicht vthgeuen de kor doch sall bij enn stande bij vnsz vnde bij vnszem Closter to Ewigen dagen to bliuende vnde der to vnszem besten nuth vnde profyte tom dinste des Almechtighen godes to gebrukende des vp en bouen godeslon hochliken bedangken wert ok dat sulche missen vnde ander vorschreuenn artikell so vorberot nicht wurden geholden so schollen de brodersshup sulche Renthe nicht wthgeuen Alle vnde Jtzliche puncte vnde artikel Jn dessem breue begrepen belauen wij hermannus doctor prior vnnde supprior vnnde gantze conuent bauenschreuenn deger vnnde alle wol to holdende Jn allen tokamendenn tijden sunder alle argelist vnd behelpinge der rechte vnde hebben der groter vorwaringe vnses Closters Jngesegell mit frihem willen witliken andussen breff heten hangen vnnde wennte vns detleff bremer Burgmester vnnde Bartelt vom Rijne Rathmann to Hamburg alle dusse dingk mede witlick synth Also hebben wij wmme beyder parte bede willen vnnser Jewellick sijn Jngesegell tor witlichen an dussen Breff der Twe synt Eijn bij dem Conuente de ander bij den olderluder dusser broderschup. Jn vorwaringe heten henghen Gegeuen

nach Christi vnnses herrn voffteynhundert am dage Sunte ambrosius.

litera fraternitatis islandipitarum.[1])
litera redditum xv marcarum
annualium ex parte fraternitatis
Sancte Anne Isslandrinorum.[1])

Þann 1. júlí 1500 var nefndur tylftardómur á alþingi um sekkjagjöld Englendinga, „sem með réttan kaupskap sigla til Íslands.“ Þá var dæmd „eftir gömlum vana landsins af eingelskum“ sex fiskar af hverju hundraði af blautum og hörðum fiski, eftir því sem skipið tekur, og skal helmingur vera harður, en helmingur blautur fiskur. — Einnig væru Englendingar skikkaðir til að nota rétt mál og vog, að viðlögðum refsingum samkvæmt lögbók. „En duggarar þeir„ sem með lóðir fara og aungvan kaupskap annan, séu ófriðhelgir og rétt teknir af hverjum manni, hvar sem þeir verða teknir.“ (D. I. VII. nr. 499.)

Þann 1. júlí 1501 var gerð alþingissamþykkt um vetursetu útlending o. fl. „Item samþykktum vér þann sama dóm stöðugan og óbrigðilegan, sem dæmdur er áður um útlenzka menn, að þeir skulu öngva vetursetu hafa hér nema fyrir fulla nauðsyn, sem dómur þar um útvísar, og þeir útlenzku skulu hvorki gera hér menn né skip til sjós.“ (D. I. VII. nr. 550.)

Árið 1501 er talið, að Key fan Arnefeld hirðstj. setji hér svofellda skipan um sekkjagjöld: að takast skal c af x lestum, ijc af xx, ccc af xxx, cccc af xl, vc af l, vjc af lx, vij af lxx, lest af lxxx og jafnmikið hundrað lestum. „Og þeir, sem ekki vilja svo mikið gefa sem fyrr segir, látið þá fara heim og skrifa upp þeirra nöfn og út af hvaða stað þeir eru.“ (D. I. IX. nr. 42.)

Síðari hluta vetrar 1502 rita [Björgvinjarfarar í Lybiku?] þýzkum kaupmönnum í Björgvin um ýmis mál, þ. á m. um Íslandsfarana, Kinkel og Wilde, og kærur frá staðarmönnum í Kampen, Deventer og Zwolle o. fl. (D. I. VIII. nr. 76.)

Á alþingi 1502 var samþykkt af lögmönnum, lögréttu og öllum almúga, að þrjár áttafjórðungavættir af 4 marka fiski skyldu lagðar í hundrað, en hálf fjórða vætt, þá harðast er. (D. I. VII. nr. 579; Afmælisrit til Þorst. Þorsteinssonar, Rvík 1950, bls. 193.)

---

1) Á bakhlið með annarri hendi.

nytteligt ær. Eth. nades Høgmechtighedt o. s. v. Screffuit wdi amsterdam othenssdagen næst effter sancti Jacobi dag (d. 27de Juli) aar etc. mdxix.

Eth. nades
pligtuge oc tro thienere
Jörgen scotborgh.

---

262. 13. september 1519. Antwerpen.

Bréf Jörgens Scodborghs til Kristjáns II. m. a. um Íslandsmál (sölu Íslands í hendur niðurlenzkum borgum). Hann segist hafa gert allt, sem hann mátti, til þess að koma fram boðum konungs um Ísland bæði í Amsterdam og Antwerpen, og hafði Jóhann Bennick verið viðstaddur og aðstoðað hann, en engu komu þeir áleiðis af ýmsum orsökum.

Kong Christian den Andens Historie. Udarbeidet efter Documenter ved Henrik Behrman, Anden Deel, Kjøbenhavn 1815, Anm. og Doc. til Chr. d. A. Hist. bls. 117—119.

Eth. n. Høgm. o. s. v.... wærdes eth. n. at wiide, at jeg haffuer udi then eth. n. befalinge om ssylandh gjordt al then flyt meg møgeligh war, bode wdi amsterdam oc swa tesliges her, Her Johan benigh offerwerendes oc tilhielpendes, Thaa haffuer jeg doch inthet kwnnet skaffe effter eht. n. begjering, Thell aff amsterdam beklage thers armodh, oc willde thee gerne met thee andre stedder, oc kwnn thee ikke worde theres ærende wæll offuereens, som jeg haffuer til somme screffuet eth. n. till, her welæ thee ey hellder theran wdi noger maade, at fultgjøre eth. n. williæ, willde jeg gerne giffue meg igien till hollandh at handelæ ther ythermere om, Thaa maa jeg icke fare her off brabandt, som her Jenss ythermere kan sig eth. n. Thii haffuer Jeg screffuit her Johan beiningh till herom the bæste jeg wedt eht. n. gaffn oc lempe kan wære at handele paa thet ny therom met them. Han giører vden twiffell therwdi all then deel han kan giøre eth. n. tieneste

met, Thet Jeg, han eller nogen, ther hendle paa eth. nades wegne, skullæ allthiidt fultgiøre, wore ordh ære icke møgeligh, Thii her holldes ingen ord eller loffue eller actes nogen redelighed, ær her icke gott at handlæ, kjæreste n. H. — — — — — — — — — — — — — —

Nw seer jeg her plat ingen loffue, redelighedt eller sandhedt. Thet giør meg vndt. Hermet eth. n. o. s. v. Giffuit vdi andropp mandagen næst effter sancti egidii Dagh (d. 13de Sept.) aar etc. mdxix.

Eth. nades tienere

Jør. Scodborg.

Árið 1519 staðfestir Jón Brandsson með eiði, að Gerst Melen (Maulen) skipherra hafi fengið Eyjólfi Gíslasyni til frjáls forræðis og ævinlegrar eignar „það sama kaupskip og skipabrot öll, er komið var á hans reka.“ (D. I. VIII. nr. 547.)

---

263. **4. maí 1520. Kaupmannahöfn.**

ÁGRIP af bréfi Elisabetar drottningar til Hannesar Eggertssonar um deilur þeirra Týla Péturssonar.

Bréfið er glatað, en Jón Halldórsson segir í Hirðstjóraannál: Og er þetta hinn sami Týli Pétursson, hvers Elisebet, Kristjáns annars drottning, getur í sínu bréfi til Hannesar Eggertssonar, dateruðu í Kaupenhafn anno 1520, hvert ég hefi séð in originali skrifað í platþýzku. Safn til s. Ísl. II. b. bls. 671—72.

Þess sérlegasta innihald er: að þar Hannes hafi Týla Péturssyni, hennar kærum og trúum manni, veitt nokkrar þvinganir og meingjörðir á Íslandi og óbillega við hann breytt; þá upp á kóngsins og hennar kærasta ektaherra vegna tilsegist og stefnist Hannesi að mæta fyrir rétti ásamt Týla Péturssyni um Marteinsmessu tíðir með þeirra mál fyrir kónginum, og skuli um það úrskurðast eftir því sem lög og réttur tilstandi. Upphvetur hún og áminnir Hannes þessu að hlýða og fyrir réttinum að mæta; en engu að síður verði þeim, sem hlýðir og mætir fyrir réttinum, hjálpað til réttinda, þó að

hinn vilji ekki koma, svo eftir þessu viti Hannes sig að rétta etc.

Jón Halldórsson segir, að svo virðist „sem kóngurinn sjálfur ekki hafi verið heima í Kaupenhafn, þá bréfið var skrifað“. Finnur Jónsson gerir einnig útdrátt úr bréfi þessu í Historia Ecclesiastica, tom. II. bls. 255—'56 og getur þar fjarveru konungs og dagsetningar bréfsins.

Sed anno 1518, videtur ei adjunctus fuisse Tylius Petri filius, & una cum eo Præfecturam gessisse, ad minimum duobus annis, 1518 & -19 ita ut Tylius Quartis orientali & boreali, Johannes vero occidentali & australi præfuerit, sed discordes eos fuisse patet ex literis seu dica, quam Regina Elizabetha, absente in Svecia Rege, Johanni scripsit anno 1520 d. 4 Maji. qua ille, ut proximo autumno circa Martini Festum, ad respondendum coram judicibus a Rege delegates, & filio, ex corum sententia, pro illatis injuriis satisdandum, Hafniæ semet præsentem sistat, citatur & grauiter monetur, cui paruisse videtur Johannes, & causam contra Tylum obtinuisse.

Í júlí 1520 kæra þýzkir kaupmenn í Lundúnum til fulltrúa Hansastaðanna í Brügge m. a. um það, að 1514 hafi Cordt Frowdendaell, skipari frá Hamborg, siglt skipi sínu frá Íslandi hlöðnu saltfiski, er flytjast átti til Hamborgar, en enskt herskip réðst á það o. s. frv. Sjá bls. 470 hér að framan. (D. I. XI., nr. 73.)

Þann 21. október 1520 gengur sex manna dómur um ágreining Þjóðverja og Eyjólfs bónda Gislasonar út af skipi og varningi, sem rak á „lóð“ hans og Eyjólfur tók að sér. (D. I. VIII. nr. 571.)

Þann 15. febrúar 1521 rita borgmeistari og ráð Hamborgar bréf um sátt Týls Péturssonar og Hannesar Eggertssonar á alþingi 29. júní 1520 með þeim greinum, er þar getur. (D. I. VIII. nr. 584.)

Þann 21. marz 1521 ritar Týli Pétursson Kristjáni II. og kvartar um það, að Sigbrit hafi gefið Vigfúsi Erlendssyni bréf fyrir hirðstjórn á Íslandi, en hann hafi fest það fjórum Hamborgurum, en þeir hafi gert út fjóra fógeta til þess að stjórna landinu með Fúsa. Hann biður konung að unna sér þess hlutar, sem hann hafi innsiglað sér, en það er umboð til yfirskattheimtu á Íslandi og Færeyjum, og skrifa borgarstjórn Hamborgar að leyfa ekki Íslandsförum að senda fágetana eða gtra á hluta sinn, og rægir Vigfús og Hannes Eggertsson. (D. I. VIII., nr. 587.)

Þann 23. marz 1521 ritar Laurids Bruun skipstjóri Kristjáni II. og ber á Týla Pétursson, að hann hafi ætlað sér að svíkja Ísland undan Kristjáni í hendur Englendinga. (Tímarit Hins íslenzka bókmenntafélags 1898, bls. 117. Jón Stefánsson, sem ritar þar grein um Tilraunir Danakonunga til þess að selja Ísland, vitnar þar í bréf (Fasc. Chr. Secundi), sem útgefanda er ókunnugt.)

Snemma sumars 1521 er m. a. fjallað um Íslandssiglingar á Hansafundi í Lýbiku. Þar er lesið bannbréf Kristjáns II. við Íslandsferðum og tilskipanir um bann við slíkum siglingum frá 1518 og flutningi á fiski frá Hjaltlandi. Lýst er yfir því, að ákvæðin frá 1518 skuli í fullu gildi (D. I. XI., nr. 76.)

Þann 19. sept. 1521 kæra Englendingar, að Hamborgarar hafi ráðizt úr launsátri á enska kaupmenn frá Hull, sem lentu hjá Básendum árið 1423. Að venju höfðu kaupmenn haldið á fund landstjóra til þess að ráðgast við hann um verzlunarstað, en á leið sinni frá landsstjóra réðust Hamborgarar á þá, særðu marga þeirra, tóku þá í gisling og létu þá fyrst lausa gegn háu lausnargjaldi.

Einnig hindri Hansamenn verzlun Englendinga ekki einungis á sínum yfirráðasvæðum, heldur líka erlendis. Árið 1477 sendu nokkrir kaupmenn í Hull skipið „The litle Petre of Hul" til Íslands, en þar réðust Hamborgarar að því hjá Straumi, fóru með það í höfn á Básendum, ræntu áhöfn þess, sem taldi 31 mann og skaut grimmilega á þá með örvum og fallstykkjum. (D. I. XI., nr. 77.)

Þann 25. september 1521 svara Hansamenn kærunni frá 19. september á þann hátt, að Hamborgarar neita báðum ákærunum og telja þær lognar. (D. I. XI., nr. 78.)

Þann 9. marz 1522 skrifar Kristján II. Íslendingum og bannar þeim að verzla við útlendinga, hvort heldur eru þýzkir, enskir eður aðrir, fyrr en þeir hafa goldið konungs umboðsmanni á Íslandi 20 „vigti gyllini", sem þeir séu skyldir að greiða árlega. (D. I. IX., nr. 61.)

---

264.

**9. ágúst 1522. Calais.**

BRÉF Howards Th. jarls af Surrey til Wolsey um strandhögg við Frakkland. Þar segist hann m. a. hafa komizt að því hjá handteknum frönskum fiskimönnum, að 9 herskip liggi búin til brottferðar í Newhaven og önnur 9 í Dieppe, en þau síðari muni ætla að ræna „the corvers", sem séu við síldveiðar undan Flaymborough Head, en þaðan ætli þau með 2000 hermenn til Skotlands, en að því loknu sé ætlun þeirra að liggja fyrir Íslandsflotanum. „— then land in Scotland, and set fort again to meet the Iceland fleet".

L. P. F. D. Henry VIII., London 1867, nr. 2431; B. M., Calig. B. II. 167. Farið eftir prentaða útdrættinum; handritið mjög skaddað.

(1522) Sigldi kong Christian 2. til Englands og bað kong Henrich um styrk, hinn áttunda, og bauð honum Ísland til panta, en kong Henrich vildi ekki; honum væri óvíst því að halda. (Skarðsárannáll, Annálar 1400—1800, Rvík 1922—1927, bls. 85.)

Í skrá um greiðslur Hansaráðs og kaupmanna í Lýbiku vegna ófriðar í Svíþjóð frá 1522—'23 er m. a. getið um ost, vín, Hamborgarbjór, íslenzkan fisk o. m. fl. (D. I. XI., nr. 79.)

Þann 5. janúar 1523 senda tveir Hansakaupmenn skýrslu frá Uppsölum til Lýbiku um ferðir Severins Norbys og telja ráðlegast að gera hið bráðasta út skip frá Danzig og öðrum stöðum, en sjálfir ætli þeir að búa skip sín m. a. íslenzkum fiski, skreið, frönskum osti, korni, púðri o. fl. (D. I. XI., nr. 81.)

Þann 26. febrúar 1523 rita tveir Hansakaupmenn í Uppsölum ráði og borgarstjórum Lýbiku og segjast ekki geta gert út skip sín með vorinu, en hvetja Lýbikumenn og aðra Hansamenn að gera út skip gegn Severin Norby og búa þau bjór, brauði, tvíbökum, skreið, íslenzkum fiski o. fl. (D. I. XI., nr. 82.)

Um svipað leyti sendir E. Potgeter Lýbikumönnum sams konar bréf um útgerð skipa með bjór, brauði, tvíbökum, skreið, íslenzkum fiski o. fl. (D. I. XI., nr. 83.)

Þann 28. maí 1523 gengur tylftardómur um ágreining þeirra Hannesar Eggertssonar og Týla Péturssonar um hirðstjórn yfir landinu, og fellur dómurinn Hannesi í vil. (D. I. IX., nr. 118.)

Þann 1. júní 1523 gengur tylftardómur um sakir Týla Péturssonar, og er hann dæmdur óbótamaður og Hannes Eggertsson skyldur að refsa honum að lögum. (D. I. IX., nr. 119.)

---

265. **2. júní 1523.**

ÚR bréfi Howards Thomasar jarls af Surrey til Wolsey kardínála um sjóhernað. Í síðara hluta bréfsins segist hann hafa frétt, að Skotar séu að gera út 6 eða 7 skip til eyjanna til þess að grípa Íslandsflotann á heimleið. Ef það heppnast, leggjast strendur Norfolk og Suffolk í eyði (the coasts of Norfolk and Suffolk will be undone) og allt England snautt af fiski næsta ár (all England destitute of fish next year). Surrey biður um heimild

til þess að senda fjögur af þeim 10 skipum, sem nú eru á þessum slóðum, flotanum til verndar.

P. R. O., S. P. 15 Henry VIII., part II., Scot. II. bl. 58; L. P. F. D. London 1867 nr. 3071.

Þann 15. júlí(?) 1523 ritar Ögmundur Skálholtsbiskup Kristjáni II. og segir m. a., „að Tijll var dæmdur óbótamaður og allir þeir, sem honum veittu styrk og fylgi að brjóta yðar náðar garð og kirkju.“ (D. I. IX., nr. 135.)

Þann 15. ágúst 1523 ritar Kristján II. Hinriki VIII. og beiðist hjálpar hans gegn hertoganum af Holtsetalandi og lofar verzlunarhlunnindum fyrir enska þegna á Íslandi, Færeyjum og í Björgvin. (D. I. IX., nr. 138.)

---

266. **30. júní 1523.** **Lundúnum.**

ENDURNÝJUN og staðfesting á friðarsamningi Hinriks 7. Englakonungs og Hans Danakonungs, gerð af Hinriki 8. Englakonungi og Kristjáni 2. Danakonungi árið 1523, þann 30. júní.

British Museum, M.S.S. Nero B. III. P. 21623, afrit.

Dania: 1523 A.° 15.° H. 8. Junij 30.

Renouatio et Confirmatio tractatui pacis Henrici 7. Angliæ, et Johannis Daciæ Regum. per Henricum 8. Angliæ et Christiernum Daciæ Reges. Ao Domini 1523 30 die Junij Londini.

Henricus Dei gratia Angliæ et Franciæ Rex, fidei defensor, et Dominus Hiberniæ omnibus et singulis præsentes literas nostras visuris lecturis, vel audituris salutem. Cum nihil magis Christianos Principes deceat, quam pacem, concordiam et mutuam ad inuicem amicitiam amplecti et fouere, quo amplius Respublica inter eos, et eorum subditos indies crescat, et continuum capiat incrementum; Sciatis quod ex mutuo conuentu habito et familiaritate contracta cum Serenissimo Principe Christierno Daciæ, Noruegiæ, Vandalorum, Gotorum Rege, Duce Slesuicensi, Holsatiæ, Stormariæ, et Dretmersiæ (svo) Comite in Oldenborg et Delmenhorst

etc. inter nos conuenisse, concordatum et conclusum esse, quod fædus pacis et amicitiæ olim inter celebris memoriæ Henricum 7. Angliæ et Franciæ Regem etc. Patrem nostrum carissimum, ac Illustrissimum Principem Joannem tunc Daciæ, Noruegiæ, Sclauorum, Gothorum etc. Regem dicti serenissimi Principis Christierni Patrem initum et confirmatum renouetur. Quamobrem ut huiusmodi confœderationis et amicitiæ fædus inter nos, et ipsum serenissimum Principem Christiernum, ac nostros et illius subditos firmius et stabilius enistat (svo) et permaneat in futurum omnium deprædationum, pyratiarum rapinarum, grauaminum attemptatarum, et iniuriarum antehac hinc aut inde illatarum, abditionem generalem facere intendimus ac ea omnia et singula per præsentes abolemus, nec non præmemorati fæderis omnes et singulos articulos, et capita per præsentes renouare confirmare, et corroborare intendimus. Quorum quidem articulorum et capitulorum verus tenor est quærendus in superiori tractatu inter Henricum 7. Angliæ, et Joannem Daciæ Reges.

Nos autem tractatum prædictum, articulos, capitula ac omnia et singula in eodem contenta rata, firma, et grata habentes ea omnia et singula pro nobis, hæredibus, et successoribus nostris quantum nos aut hæredes, et successores nostros concernunt, aut concernere poterunt approbamus, renouamus, ratificamus, et confirmamus, ac inuiolabiliter firmiter, bene et fideliter tenere, obseruare, adimplere, tenerique obseruari et adimpleri facere cum effectu bona fide, et in verbo Regis promittimus per præsentes. Jn quorum omnium et singulorum promissorum fidem et testimonium his præsentibus literis manu nostra propria subscriptis magnum nostrum sigillum apponi fecimus. Datum in Ciuitate nostra London 30. die Junij ao. Dni. 1523. et Regni nostri etc.

---

267. 17. ágúst 1523.

BRÉF Wolseys til Hinriks VIII. um ýmis tíðindi, en í niðurlagi þess segir, að Íslands- og „Zeeland"-flotinn, og þar á meðal Marz James, hin aflamesta, hafi komið heilu og höldnu í höfn, („The Iceland and Zeeland fleet, and amongst them the Mary James, the richest, have returned safely").

P. R. O., S. P. 15. Henry VIII. 28, bl. 149—'50; L. P. F. D. Henry VIII., London 1867, nr. 3248. Sbr. S. P. I. b. bls. 120.

268. 3. nóvember 1523. Brimum.

KÆRA borgarstjórnar Brima til borgarstjórnar Hamborgar þess efnis, að síðastliðið vor hafi skipherra frá Brimum, Hinrik Haneman, haldið skipi sínu á Kumbaravog, en orðið fyrir árás af Kersthen Junge, skipherra frá Hamborg, en sá vildi ekki, að Hinrik sigldi á Grundarfjörð, auk annars, sem bréfið greinir.

Staatsarchiv Hamburg, Urkunden u. Akten betr. den Handel zwischen Hamburg u. Island v. 15. bis 17. Jahrhundert, insbes. Cl. VII. Lit. Kb No 11 Vol 1a, 1o, 2, 3, 4 n 5. — Cl. VII. Lit. Ka No 11 vol. 1a. Islandica 1481 bis 1532; blað 14.

1523.[1]

Den Ersammen Wiszen Hern Burgermestern vnde Radthmanen der Stadt Hamborch vnszern besundern guden frunden.

Vnszern fruntlicken groth beuorn, Ersame Wisze hern besundere guden frunde Sumyge vnser borgere hebben vns In klagen to Irkennen gegeuen wo se am Jungest vorgangen vorjar eyn Schip, dat schipper Hinrick Haneman geforet, In Islande In de Kummerwage tho sinde, vorfrachtet hedden, So nu de Schipper In de apenbaren Szee gekamen, des were ome darsuluest eyner Juver Schepe, dat Kersthen Junge geforedt angekamen, vnd na bespracke van der vnszen Schipperen, wulde hebben, dat he niyt omhe In de Grindeforde,

[1]) Með blýanti.

scholde lopen, des der vnszen schipper, na deme darhen nicht vorfrachtet, hedde don willen, derhaluen so hedde genannthe Kersten Junghe, wreuelickes modtwilliges vornemendes, sunder Jenige rede, tho der vnszen Schepe Ingeschante vnd upgedacht' Schippern Hinricke Hanemanne, den eynen Knaken am lyue affgeschaten, dar van he, bermelick vam leuende thom dode gekamen, des wy vns nicht vorszen, de wile wy myt Juven E. effthe' den erhen, nich't anders dan alle gude vorwethen, den vnszen eyn szodant van den Juven scholde sin bortgendt(?) Szo nu gedachte zelige Hinrick Haneman, aner dat Schipp vnd Jngeschepede gudere beyde Schipper vnd Kopman gesettet, des vnsze borgere, durch sinen dotlicken affganck an orhen guderen tho mergklickem schaden geforedt dar myt ouen, se gy suluest riplick to bedenken hebben, nicht steyt to gedulden Deme Na fruntlick bidden vnd begeren, dat gy vilgedacht' Kersten Junghen. syne Jnnehebbende koplude, schepkindere, sampt sinen rederen dar to willen vor hebben, dat se des zeligen Schippern angebornen frunden de welck jm Stichte van Bremen, belegen sin, vor den doden helsz vorsoninghe don, vnd vnsze borgeren, oren magklicken schaden den se der wegen geleden lesten vnd gelden, uppe dat wider moije vnd vnlust, de der wegen, dar Jd nicht xeschege[1]) Jrwassen kunde, mage vorset blyuen, dat velichte deme vnschuldigen, de des nichtes tho donde, tho nadell vnd schaden kunde recken, dat wy J. E. guder menyge vppe der vnsze Jrsakent, so fruntlick tho Jrkennende geuen, wor wy den sulfft' Ere vnd denste konen bewiszen sin wy geueget, vnd bogerens Juve richtige antfworde Scr' vnder vnszer Stadt Se. am dinxstedage na om' Sctor Anno etc xxiij.

Consules Ciuitat' Bremenszis.

Þann 12. desember 1523 ritar Nicolaus Petri Kristjáni II. og segir honum m. a., að Hans Heroldt hafi sagt, þegar hann kom frá Englandi, að konungur (þ. e. Hinrik VIII.) vildi hvorki skipta

---

1) Sennilega misritun fyrir geschege?

sér af Íslandi né hinum löndunum, eftir að Englendingar komu þaðan og báru þau tíðindi, hvernig farið hefði fyrir Týla Péturssyni og öðrum, sem voru fylgjendur Kristjáns II. Og taldi Hans, að konungur vildi ekki lána fé út á þau sem veð (D. I. IX., nr. 149.)

Í „Historia Ecclesiastica“ Tom. II. bls. 256 segir Finnur Jónsson þannig frá lífláti Týla Péturssonar:

Anno enim 1524 cum Johannes Comitiis universalibus celebrandis occuparctur, Tylius portum Hafnfiordensem ingreditur, effractoque templo Bessastadensi, aliisque ædibus, mercimonia & Regia vectigalia que ibidem servabantur, aufert, & in onerariam quam habuit navem transportari curat; Quod audiens Johannes, citissime advolat, & collecto Islandorum & germanorum mercatorum globo, Tylii navem adoritur & debellat, ipsum autem captum, capile plectit.

Í Skarðsárannál við 1524 segir: „Týl hirðstjóri höggvinn á Bessastöðum af dönskum“, en í Gottskálksannál við sama ár: „Tiil hirðstjóri höggvinn hér.“

Jón Espólín fylgir frásögn Finns biskups af atburðum þessum: „Það sumar hið sama, sem Jón Arason var utan (1524), var þá Hannes Eggertsson staddur á alþingi að erindum konungs; kom þá Thýli í Hafnarfjörð, skiptafélagi hans, og braut upp Bessastaðakirkju og önnur hús og rænti bæði vörum og sköttum konungs, er þar voru, og lét flytja á byrðing, er hann hafði með sér. Þetta frétti Hannes og fór sem skjótast heim, safnaði að sér Íslendingum og þýzkum kaupmönnum og lagði að skipi Thýla og vann það. Var síðan Thýli afhöfðaður, og lauk svo hans ævi.“ (J. Espolin: Íslands árbækur, III. d. Khöfn 1824, bls. 80.)

Jóni Gissurarsyni segist svo frá:

Einn (höfuðsmaður) er nefndur Thill, en hann var ei réttur höfuðsmaður, heldur hafði hann logið sig inn í landið með falsbréfum og kom út snemma og safnaði öllu því hann gat inn í Hólma; en þá hann var að þessu, kom réttur hirðstjóri með konungserindi; tóku þeir Týl þá og son hans og leiddu þeir þá báða austur yfir Bessastaði og hjuggu þar af þeim höfuðið; kallast Týlshóll síðan. (Jón Gissurarson: Ritgjörð um siðaskiptatíma, Safn til sögu Ísl. I., Khöfn 1853, bls. 660.)

Þann 4. apríl 1524 ritar Kristján II. Nicolausi Petri kanslara og býður honum að halda til Englands og biðja Hinrik VIII. að lána sér 100 þús. engelott gegn veði í „nokkrum löndum vorum, sem þér hafið umboð til“, en vilji Hinrik það ekki, býðst Kristján að greiða lánið eftir eitt ár, o. fl., sem bréfið greinir (D. I. IX., nr. 181.)

Þann 27. apríl 1524 ritar Nicolaus Petri Kristjáni II. m. a. um fyrirhugaða ferð sína til Englands að afla konungi láns gegn

veði í nokkrum löndum hans, en telur, að sú ferð muni árangurslaus. (D. I. IX., nr. 184.)

269. 1. ágúst 1524.

BRÉF Wolseys kardínála til Howards hertoga af Norfolk um stríðsrekstur við Skota og Frakka. Hann býður Norfolk m. a. að bæta fyrir kæruleysi þeirra, sem áttu að gæta Norðursjávar, en sökum þess hafa tvö skip frá Leith hremmt 7 hertekin skip og eitt varðskip Íslandsflotans (by which seven prizes and one wafter of the Iceland fleet have been taken by two ships of Leith).

British Museum, Calig. B. I. St. P. IV. 85. L. P. F. D., IV. þ. London 1870, nr. 549. Farið eftir prentaða útdrættinum.

---

270. 9. ágúst 1524. Hampton Court.

BRÉF Wolseys til Norfolks um stríðsreksturinn. Undir lok bréfsins, sem er 12 blöð, segir Wolsey m. a., að Norfolk muni minnast þess, ef hann hugsi sig um, að hann skorti ekki upplýsingar, eins og hann kvarti um; nú sé „my lord of Carlisle“ og hann með umboð til þess að semja vopnahlé. Wolsey segist ekki hafa nein ráð til þess að senda skip úr sundunum, „narrow seas“, þess vegna verði Norfolk að gæta öryggis Íslandsflotans.

British Museum, Calig. B. II. 18, St. P. IV. 96; L. P. F. D., IV. b. London [870, nr. 571. Farið eftir prentuðum útdrætti.

---

271. Ágúst 1524.

ÚR flotareikningum, langt skjal um alls konar útgjöld sökum flotans. Þar segir m. a., að sendiboða hafi verið greiddir 20 s. fyrir að ríða frá Hull til Yarmouth og flytja þar ákveðnum skipstjórum þau boð Norfolks að halda norður á bóginn Íslandsflotanum til verndar. — „reward to Thos. Chapman, riding from Hull to Yarmouth, by Norfolk's command, to warn certain cap-

tains to go northwards to waft the Iselond fleet 20 s.“

L. P. F. D. Henry VIII. London 1870, IV. b. nr. 691, P. R. O., S. P. 16. Henry VIII. part I. Farið eftir prentaða útdrættinum.

Þann 9. ágúst 1524 gefa Björgvinjarfarar skýrslu um athafnir herradagsins í Kaupmannahöfn 23. júní—23. ág. 1524 og segja m. a., að þeir hafi reynt að fá endurnýjaða staðfestingu á banni við Íslandssiglingum til Norður-Þýzkalands, en fallið frá kröfunni, af því að Hamborgarar vildu það, en þeir njóta nú mikillar konungshylli (D. I. XI. nr. 84; Joh. Sehreiner: Hanseatene og Norge i det 16. Århundre, bls. 79.)

Þann 9.—17. ágúst 1524 gefur Friðrik I. út bréf um verzlunarforréttindi Björgvinjarkaupmanna, en þar segir m. a., að konungur staðfesti rétt kaupmannsins (Björgvinjar-) til Íslandsferða árið (en eyða fyrir ártalið), en það hafa fyrri konungar oft staðfest og gefið út bréf um þau efni. Einnig bannar hann siglingar til Færeyja og Hjaltlands án leyfis, en segir, að Björgvin sé réttur markaður, og hótar refsingum, ef verzlunarforréttindin séu brotin (D. I. XI. nr. 86.)

---

272.

## 2. september 1524.

BRÉF Wolsey til Norfolks um stríðsrekstur og missi skipa úr Íslandsflotanum í hendur Skota. Þar segir, að konungi gremjist mjög taka skipanna, sem komu frá Íslandi. Hann býður Norfolk að rita konungi og drottningu Skota og benda þeim á, að skipin hafi verið tekin, meðan vopnahlé ríkti og ekki var búizt við slíku athæfi, og krefjast þess, að þau grípi til engra örþrifaráða eða geri veður út af slíkum smámunum. Sé hins vegar ógjörlegt að fá skipunum skilað, ber að reyna að leysa þau út hjá þeim, sem tóku þau. En sé ekki hægt að koma á neinni málamiðlun, verður að finnast leið til þess að koma skipum og fiski í hendur Englendinga, því að annars er líklegt að mikill skortur verði. „If no compromise can be effected, means should be found to get the ships and fish back again into the Englishman's hands, otherwise great scarcity is likely to ensue.“

L. P. F. D. Henry VIII., London 1870, IV. nr. 615; B. M. Cal. B. VI. 336, St. P. IV. 120. Farið eftir prentaða útdrættinum.

273. 12. september 1524.

BRÉF Williams Hals til Norfolks um erindrekstur við skozku hirðina. Þar segist hann m. a. hafa afhent Skotadrottningu bréf sín og krafizt þess, að hún sendi biskupana tvo til Berwicks og skilaði aftur skipunum tveimur, sem Skotar tóku, er þau komu frá Íslandi. Hann segist einnig hafa talað við Arran og ábótann af Paisley um endurheimt skipanna.

L. P. F. D. Henry VIII., London 1870, IV. nr. 651. B. M., Calig. B. III. 80. Langt bréf, en kemur ekki Íslandi við að öðru leyti en hér greinir

---

274. 15. september 1524.

BRÉF Wolseys til Norfolks um ýmis efni, en þar segir m. a., að Wolsey hafi sent erindreka til Skotadrottningar til þess að fjalla um Íslandsflotann og flutning erkibiskupsins af St. Andrew's og biskupsins af Aberdeen til Berwicks.

L. P. F. D. Henry VIII., IV. b. London 1870, nr. 662; B. M. Calig. B. VI. 345.

Í elzta hluta Sigurðarregesturs frá 1525 segir m a., að Möðruvallaklaustur eigi „tvær messubækur per annum, önnur hollenzk, en önnur engelsk". (D. I. IX., bls. 318.)

Sumarið 1525 fjallar Hansaráð í Danzig m. a. um Íslandsverzlun, og segir þar, að Hamborgarar, Brimarar og Lüneborgarar skyldu bjóða þeim, sem stundi Íslandssiglingar, að verzla með íslenzka fiskinn á sanngjarnan hátt, svo að Hansastaðir hefðu þar engan skaða af. Yrði hins vegar yfir slíku kært, skyldu menn setja deiluna niður sameiginlega. (D. I. XI., nr. 89.)

Sumarið 1525 er fjallað um Íslandssiglingar á Hansafundi í Lýbiku, og voru þar kunngerð og lesin forréttindabréf Björgvinjarkaupmanna frá Friðriki konungi (sbr. bréfin frá ág. 1524 (D. I. XI. nr. 84 og 86) og greinar úr recessum frá 1518 (D. I. XI. nr. 65), bann Kristjáns II. við því að Hansamenn flytji fisk frá Íslandi til annarra staða en Englands (D. I. VIII. nr. 432) og bréf Hansastaðanna frá 1494 (sbr. D. I. XI. nr. 47). — Brimarar segja, að ekkert skip sigldi til Íslands frá borg þeirra, en annars væri Íslandsfiskur fluttur til þeirra staða, þar sem Björgvinjarskreið

væri ekki á boðstólum eða of dýr. Fulltrúar Hamborgara segja, að það sé illt, ef þeim sé bannað að stunda þessar siglingar, en þær séu leyfðar erlendum þjóðum. Fallizt var á að fá Björgvinjarfara til þess að umbera friðsamlega þessar ferðir með skreið o. fl. (D. I. XI. nr. 91.)

Í maí 1526 ritar Friðrik I. Henriki Rantzau erindisbréf til samninga við Hansaráð í Lýbiku og segir þ. m. a., að Íslandsförin liggi ferðbúin í Hamborg (D. I. XI. nr. 94.)

---

275. 1. júní 1526.

SAMKOMULAG milli Hinriks VIII. og þegna hans, sem stunda siglingar til Íslands og sækja þangað löngu og þorsk, þess efnis, að konungur fær endurgjaldslaust árlega til heimilisþarfa af hverju skipi sem hér segir: 1) Af hverju skipi með 400 löngur eða meir á birgðasafnari konungs að velja 200, og af þessum 200 á hann að velja 100, en það ber konungi endurgjaldslaust, en þó fellur niður salttollur af skipinu. — 2) Af hverju skipi með þorsk, ber að velja 200 þorska á sama hátt. — 3) Enginn birgðasafnari má heimta fisk á annan hátt en hér segir og þó því að eins, að hann hafi gilt umboð til þess, en sé meira krafizt, ber að greiða það eftir samkomulagi, eins og tveir kaupmenn ættust við. — 4) Konungur hefur heyrt um þungar álögur á smáskipin og hefur fallizt á þessar tilslakanir: — Af hverju skipi með 10 vættir salts eða minna lætur hann sér nægja hálft hundrað löngur eða 100 þorska.

B. M.: M. S. S. Lansdowne 21., bl. (p.) 21623; frumrit glatað, en slæmt afrit varðveitt frá 1575—'76, mun gert af Burghley lávarði. Í skjalinu segir, að nöfn Íslandsfaranna eða merki fylgi, en það skjal er glatað. L. P. F. D. Henry VIII., IV. b. London 1870, nr. 2220.

A composition made the first day of June the xviij[th] year of the reign of our soveraigne Lorde Kinge Henrye the viii bytween his heighnes and certen his servantes and subiectes adventuring into Iseland for lynge or code the whose names or markes hereafter these

articles do ensue for the havinge yearlye to the use of his househould franke and free of everye shippe coming oute of the said parties of Iseland etc. fyshe in maner and forme etc. folowinge, that is to saye:

At firste of everye shippe havinge 4c linges and uppwards the kinges purveyors to comme to the stoue or house where all the holle sheppes Linge lyethe and at his owne choyse at enye place of the holly pyle to caste oute cc linges as they shall ryse and of the same cc linges so caste oute to make out hunderethe of theim at his Descression and the Kinge to have y c linges so made frank and free onlesse the acquitinge of the custome of the said shippes salte.

Item of every shippe havinge Codde and not the nomber of iiij c Linges the Kinges purveior to come to the stoue or house where all the holle shippes Codd Lyethe and at his owne chyse in any place of the holl pyle to caste oute iiij c Coddes as they shall ryse and of the same iiij c Coddes so caste owte to make cc of theim at his Descresion and the kinge to have the cc coddes so made ffranke and ffree onlesse the aquitinge of the said shippes salt.

Item that neyther Linge nor Codde be had or ......[1]) any purveyor of any suche owner or marchante .....[1]) Delyn' ffyshe in maner and fforme as is above ...[2]) vertue of commyssion or oother auctorytie ...[1]) e ..[2]) case it shall be requisite to have eny fyshe of ....[1]) of them over and above the fyshe had as is be ...[1]) specefyed that then the said purveor To haue it as he ...[2]) agree with the said owner or marchante with oute eny maner praysinge but as one marchante dothe bye of another that is to saye by agremente bytwene them.

The Kinges heighnes beinge Advertysed of the gret charge towardes the smale shippes is contented notwith-

1) gat í handriti.

2) máð.

standinge the forsaid composision to remytte ..[1]) maner as hereafter ensewethe that is to saie of every shipp of x wey salte and vnder havinge iiij c Linges and vpw ...[1]) to have but half an hundere the Linges to be made oute of a c Linges as they shall ryse as aboue said, and of same suche shippe of x wey salt and vnder not havinge the nomber af iiij c Linges the purveyor to come to the stoue or howse where the shippes Codd shall lye and to caste oute cc Coddes as they shall ryse and of the said cc Coddes to make one honderethe of the leste, and the kinge to have the said c Coddes from ....[1]) and of everye shippe of xj wey salte and vpper the kinge to haue ffyshe accordinge to the ....[1]) composion this article notwithstandinge.

---

276.

1526.

TVÆR athugasemdir um kaup á harðfiski, sem fram hafi farið milli þeirra Olricks Bodekers yngra, sem staddur sé á Íslandi, og Peters Schroders í Brimum.

Ríkisskjalasafn Lýbiku, athugasemdir í Niederstadtbuch, nr. 3, Skrá Guðbrands Jónssonar á Lbs. bls. 185. Afrit af handritinu hefur ekki fengizt til Íslands.

---

277.

1526. Ipswich.

ÚR reikningum Henrys Tooleys, kaupmanns í Ipswich, yfir útgerð hans og verzlun, en hann gerir m. a. út skip til Íslands, ræður menn til fararinnar og kaupir vistir og púður.

The Borough Libraries of Ipswich, The Waste Book of Henry Tooley, merchant, of Ipswich, 1524—'48, bl. 4 bak; handritið illa varðveitt og yfirstrikaður hver reikningur, þegar hann hefur verið goldinn.

---

1) máð.

Be y[e] grase off gode in to Yselonde wardes anno 1526
Item delyvered to matleyng of Walbreweke 6 s. 8 d.
— —— to Jorge the Carpenter 15 s. heys wagys 40 s. 20 d.
—- —— to John breyttweysse of hasteynse in mony and clothe and schertts 7 s. 5 d. ob. [and heys wayeys 16 s.][1])
— —— to y[e] master for y[e] seyd John breyttweyse 2 s. in money.
— —— to y[e] master 32 c hokys att 6 d. y[e] c somme 16 s.
— 1 ferkyng w[t] gone powder 32 li and zalt 6 d.
— 5 bochelyswheytt pese att 8 d somme (eyða).
— halfe a c leyngeys — 30 s
— 1 teppynett feggys — 2 s
— 2 barrelys tarre and 1 barrelle pegche
— delyverd y[e] master 20 s.
— 1 barrelle of befe 10 s.
— more delyverd to the master 16 s 8 d and 3 s 4 d be master ........[2])

---

278. **16. nóvember 1526.**

SKÝRSLA um skip konungs og útgerðarkostnað þeirra á ári hverju, en þar eru eftirtalin skip talin fær til kaupsiglingar til Spánar, Austur-Miðjarðarhafs (Levant), Bordeaux, Íslands og Flandern: „The Gabryell Ryall, the Kateryn Fortune, the John Baptyst, the Barbara, the Mary George and the Newe Bark“, og kostnaður við þau árlega í launum og birgðum er £ 136–10-0.

B. M., R. M. S. S. 14, B. xxii; L. P. F. D. Henry VIII, IV. b., London 1870, nr. 2635.

---

1) milli lína.
2) ólæsilegt.

279. 12. apríl 1527.

BRÉF Friðriks Danakonungs til Hinriks VIII. til styrktar Johannesi Peterszen „nomine Haberque", íslenzkum kapteini, þess efnis, að honum leyfist að reka verzlun í Englandi, flytja vörur inn og út án þess að greiða tolla.

P. R. O., S. P. 1/41, bl. (p) 159; L. P. F. D. Henry VIII. IV. b. London 1872, nr. 3034. Skaddað skinnhandrit, en útdrátturinn er gerður eftir prentuðu ágripi í L. P. F. D.

1527 í júlí (2.—5.) gera Hamborgarkaupmenn og skipherrar í Hafnarfirði. þeir Klawus Mul, Kortt Blom, Vilkin Rugg, Petur Risk, Didrik Meyar, Hans Roholt, Jacob Tode og Hans Kokk skipherra frá Brimum og Englendingarnir Jon Mor og Matteus — kunnugt, að samþykkt var á Öxarárþingi af öllum almúga að þeirra bæn, „að hér skyldi ganga fyrir sunnan hálf fjórða vætt á vog fyrir gilt c fiska með hreina fiska harða og kvistaða. Hér í mót játuðum vér og viljuglega lofuðum að flytja falslausan varning og gjöra gömul hálfstykkiskaup, sem að fornu hafa verið, tveggja tunnu þunga í hverju c kaupi og hafa íslenzkan pundara réttan og svo íslenzkar stikur, þá sem þingmælt væri. Hér með skyldum vér hafa réttan mæli þrjátigi marka áttung, tvö hundruð marka tunnu. Skyldi hver maður mega með frí kaupa þar hann vildi. Svo og lofuðu vér, að aungvir útlenzkir menn, hvorki þýzkir né engelskir, skyldu gjöra hér skip né menn til sjós og eigi heldur liggja hér í landið vetrardag nema skipbrotsmenn eða smádrengir þeir, sem öngvan kaupskap hafa. En ef útlenzkir kunna ekki að fá frakt og hér væri ekki skreið til, þá skyldum vér mega fá í hendur nokkrum íslenzkum manni trúlyndum vort góss og selja og þó öngvan pening dýrra á vetur en á sumar gengur í réttri kauptíð. Lofuðum vér fyrrnefndir þýzkir menn að fá bréf af Hamborgarráði, að þessi gjörningur skyldi haldast. Sömuleiðis lofuðu engelskir af sínum parti, að þetta skyldi óbrigðulega standa, en hver hér af brigði, skyldi slíku sakaðir vera sem dæmt var í tíð gamla Pinings. ......... Nú með því, ef vér kaupmennirnir kunnum ekki að fá vora frakt og vilji enginn mann taka vora peninga, þá viljum vér fá yðar náð þá eður lögmanninum að selja þá fyrir oss, en vilji þið ekki, þá viljum vér setja eftir vora menn, að vér megum fá selda vora peninga eins á vetur og á sumar". — (Innsiglað frumrit D. I. IX. nr. 343.)

Þann 16. ágúst 1527 ritar Vincencius Lunge Ólafi Engilbertssyni erkibiskupi um tvennar kærur Skotakonungs um tvö skip frá Skotlandi, en þau voru tekin við Noreg; menn sínir og tengdamóður sinnar hafi tekið annað, en skilað skipstjóranum, Valter

Skotta, því aftur, en menn erkibiskups tekið hitt og skip frá Kampen, en skilað því aftur. Þá hafi þau haldið til Íslands til þess að ráðast á Englendinga (D. I. IX. nr. 349.)

---

280. [1527]. Ipswich.

ÚR REIKNINGUM Henrys Tooleys, kaupmanns í Ipswich, yfir útgerð skipsins Mary Walsingham, sem er búið til Íslandssiglingar.

The Borough Libraries of Ipswich, The Waste Book of Henry Tooley, merchant, of Ipswich 1524—'48, bl. 8 aftan frá, fremri síða. Slæmt handrit. Sjá Dorothy Burwash: English Merchant Shipping, Toronto 1947, bls. 50.

Anno [1527]1) 1524

theys be the mareyners that selthe in ye Mary Wallesyngham in to Yselonde

Md payd to Wylliam Colkyeny 6 s 8 d and 5 s 4 d and 4 s.

Md payd to Johanem lyton 6 s and zowe 12 and zerweyse 2 s 4 d and 5 s 4 d.

Md payd to John Collyng of Fchemer 6 s 8 d and 9 s 4 d.

Md payd to tomas Hoysesane 4 s and mor 6 s and 5 s 8 d.

Item delyverd ye master 27 c and hallse hekys att 6 d ye c.

Item delyverd ye master 1 c codde in ye modde the pryse 30 s.

Item for 3 oryse that longthe to my botte 4 s.

Item the good man propett for heysman 3 c. hokys 18 d. and for 3 c snothers 15 d.

Item that I payd tomas a berry 7 s 6 d in p(ar)ty off payment for a ankyr that most cost 46 s 8 d.

Item yt I Most have of tomas a berry 17 s ave 1 d.

1528 þann 5. júní lætur Jón sýslumaður Hallsson kveða upp dóm að Vilborgarstöðum um húsmenn og kaplatölu í Vestmannaeyjum, en þar segir m. a., að dæmt hafi verið á alþingi, „að hver sá maður, sem þar hús tæki til leigu eða láns með minna fé en

---

1) Talið rétt ártal.

hann átti hálft fjórða hundrað, en hver sem að öðru vísi gjörði, skyldi húsin óheilög og upptækt allt það þeir ætti af konungs umboðsmanni. .... Svo og skyldi upptækt vera fyrir öllum þeim, sem reri fyrir engelska menn“, o. fl., sem bréfið greinir. (D. I. IX. nr. 396.)

Íslendingar hafa gengið í þjónustu erlendra kaupmanna, eins og þessi klausa sýnir:

„Herra Marteinn sigldi ix vetra með engelskum og var ix ár samfleytt í Englandi; sigldi hann fyrst með Robert (eður Hobert), sem hér fékk systur hans, Guðlaugu Einarsdóttur; var þessi Robert veturtökumaður hjá síra Einari Snorrasyni á Staðarstað í ij ár og giftist henni. Var brullaup haldið í Rifi á kost engelskra; létu engelskir til sína tunnu víns af hverju skipi. Þar lágu þá ix skip. Stóð veizlan hálfan mánuð. Sigldu þau það sama sumar og herra Marteinn með þeim. Gekk hann í engelskan skóla og iðkaði síðan málverk. Eftir það var hann ij ár kaupmaður í Grindavík, til þess hann var tvítugur; vildi þá faðir hans ekki leyfa honum það lengur, og beiddist herra Ögmundur eftir honum, svo var hann hér málari og málaði kirkjuna gömlu“ (Biskupasögur, gefnar út af Hinu ísl. bókm.fél., II. 6. Khöfn. 1878, bls. 251—'52.)

Marteinn Einarsson hefur sennilega verið í þjónustu Englendinga í Grindavík um eða eftir 1520. Kirkjan gamla, sem hann málaði „hér“, hlýtur að vera dómkirkjan í Skálholti, sem brann „líklega árið 1527“. (Sjá ritg. Magnúsar M. Lárussonar: Dómkirkjan í Skálholti — Samtíð og saga VI. b., Rvík 1954, bls. 47.)

---

281. 20. júní 1528. Stoke.

BRÉF Norfolks til Wolsey kardínála um hollenzkt skip, sem franskur bakari í Yarmouth lét taka og réð á það fjóra Englendinga, en „þrír þeirra eru nú á Íslandi“, og fleira, sem skjalið greinir.

P. R. O., S. P. D., Henry VIII., (S. P. i). Vol 48, bl. 211—212; L. P. F. D.. Henry VIII, IV b. London 1872, nr. 4399.

Pleasith at your grace do be aduertised, that wher your grace wrote vnto me. to see the ducheman called Jacobson. to be restored to his ship. and goodis. taken from him be a ffrenchman and after sold to the priour of Bromeholme in Norffolk for xlij li. I sent for the said priour. who came to me on Corpus Christi daie

last past and browght with him diuerse witnesses that he bowght the said shipp. by the said duchemans desire wheruppon. the ducheman. beinge present. I gave them an oth vppon a booke. to saie the trowth in that I should examyn them of. and ther. before him fower honnest personnis seuerally examyned. did depose. that they herd him desire first oon Katcham. and after the priour to bid the shipp to his vse who so did, and then offred the same to him for such monney as she was bowght for, and when he herd she shuld cost xlij li. he said plainly he wold geve but xxx li. And wher he hath enfourmed your grace. that he shuld have kept. his shipp well Inowe. Yf the priour and his folkes had not be, that saienge is well proved to be vntrewe and he hath confessed. that the priour did. lett nor hurt him in no thinge. but that he wold not suffre him to take the ffrenchman. when he was. come to the priours howse vppon his promes to Retorne savffe againe. and to bargayne with him for sellinge of the Shipp. So that by all the examynacions and proffe that I can make the priour and his folkes wene in no such default as by the ducheman hath been alledged. to your grace. Of trowth they were to blame to suffre the ffrencheman to medle with the Shipp she beinge drye on grounde in the kingis Realme which they do excese by, ignoraunce. ffurthermore I haue made such serch. that it is well proved before me. that A ffrenchman dwellinge in Yermowth. beinge A Baker called Nicholas. was cawser of the takinge of the Duchman, and both manned vytailed. and ordinaunced the ffrenche shipp that toke him. and hired fower Inglishmen to goo in her which were at the takinge. and three of them be nowe in Iselond. and the forth hath confessed the same vnto me, whervppon I haue caused the bailies of Yermouth to attache the said Nicholas. and to send him upp to your grace. who after myn opynyon owght to Recompence the ducheman for his losses. and all others that hath sustayned any Losse by the same, for he only was the cause of

all this busynes. Your grace may order this matier as it shall please you. Or and it maie lieke your grace to remytte the said Nicholas. to me and my Lord of Suffolk who is Steward of Yermouth. we shall see the same doon havinge comaundement from your grace so to do, his goodes be arrested by my comaundement, and as I am enformed be sufficient to recompence all parties dampnyfied. — Thus the holy Trinitie haue your grace in his most assewred

Wreten at Stoke the xx th daie of June

Your most bownden C. Norffolk.

---

282. 21. júní 1528.

BRÉF Tukes (Sir Brian T. ritari H. VIII.) til Wolseys um öryggi á hafinu o. fl. Þar segir m. a., að konungur efist um, að Spánverjar séu bundnir samningum við Margareti (af Austurríki) („my lady Margaret"). Tuke segir kardínála, að hún hafi tekizt á hendur að fá keisara til þess að staðfesta samninginn og lofað að bæta góss, sem gripið yrði af Spánverjum, og bætir við, að hefði þessari skipan ekki verið komið á af Wolsey, hefðu þegnar konungs, sem sigla til Flandern, Íslands, Danmerkur, Bordeaux o. s. frv. átt stöðugt á hættu að vera teknir herskildi. „His highness, not willing to make great replication said, a little army might have served for keeping of the seas against the Spaniards; and I said, that his army royal, furnished as largely as ever it was, could not save his subjects from many great harms in the length between Spain and Iceland."

B. M. M. S. S., Vesp. C. IV. 237, L. P. F. D., Henry VIII. IV. b. London 1872, nr. 4404.

Þann 16. sept. 1528 rita stjórnendur Hamborgar Hinriki VIII. kæruskjal á hendur Nicolausi Buckbroch frá Lundúnum, Robertusi Vete frá Lynn (Linge) og Johanni Kabkon frá Bristol, sjómönnum eða formönnum á skipunum „Magdalena", „Thomas" og „Michael", og skipstjórum og öðrum Englendingum sökum árás-

ar og ráns á þýzku skipi. Þann 3. mai 1528 lagðist Hamborgarskip undir stjórn Hans Schomakers á höfnina við Rif (Gamelwiek) og lá þar fimm vikur. Kaupmenn höfðu fyrir sér siglingaleyfi Danakonungs, keyptu skreið eftir siðvenju landsins og uggðu ekki að sér. Englendingar ráðast þá á skip þeirra eins og sjóræningjar, svo að Þjóðverjar neyðast til að flýja upp á land til þess að bjarga lífinu, en Englendingar ræna og hafa á burt vörur og góss 671 punds (talentorum) 12 skildinga (solidorum) og 10 denara virði, og krefjast Þjóðverjar skyldra skaðabóta. (D. I., XI., nr. 96). — P. R. O., S. P. 20. Henry VIII. part. 2. 1/50, p. 110—111; L. P. F. D., vol. IV. nr. 4740; H. R. 1477—1530, II. Abt. 9, nr. 456, bls. 591; Staatsarchiv Hamburg, Cl. VII. Lit. K[a] No 11 Vol. 1[a], Islandica 1481 bis 1532, blað 22. — en einnig er getið um atburðina í sömu heimildum í skjalasafni Hamborgar: bl. 17 og 19 — 17 eru lauslega hripaðar minnisgreinar með mjög vondri hendi um það, að „Cordt freudendall wurdt van den Engelschen auerfallen, geschaten, de lude tho stucken gehouwen, auer de bort geworpen“. — Einnig, að „Hinrik van Ronne“ hafi verið særður og „Anno xxviij lach Hans Schomaker In den hauen dar der Englschen vor de hauen quemen“. Þeir valda þar 7300 lýbskra marka tjóni (de schade vij duscent 300 lybiche m.). Þar eru nefndir „Clawes bulbenh shipper vp des .... schepe Jon bwde, Jon kredich de kleine Jacob, de kleine Tomas van Lunden“. Annars er skjalið að mestu ólęsandi. — Blað 19 er uppkast að bréfi því, sem prentað er í D. I. XI. nr. 96.

---

## 283. nóv.—31. des. 1528.

SKRÁ yfir skip, sem sigla til Íslands, gerð af Cecil lávarði, æðsta ráðgjafa Elísabetar drottningar, um 1576. Hann hefur haft fyrir sér skrá um siglingar til Íslands frá 20. ríkisstjórnarári Hinriks VIII., afritar hana og bætir við, hve mörg skip sigli frá hverri höfn 1576.

Af skránni sést, að árið 1528 sigla 149 skip frá Englandi til Íslands, en um 1576 aðeins 43.

P. R. O., S. P. 1/51; L. P. F. D. IV. nr. 5101.

Anno regni Henrici octaui xx[mo] for Yslonde 0.
Out of London for Yslond viii skippes nowe ....
Oute of Harwiche and Ypswiche and Maventre
(Manningtree) with the eyde of Dedam Sudberre

and Colchester xiiij shippes and nowe ...... 4.
Oute of Woodbridge iii shippes and nowe ...... 1.
Oute of Alborowe Sysewell and Thorpe vi shippes and nowe ................................ 2.
Oute of Dunwiche Walderswicke and Sewolde (Southwold) Easton and Coughyve xxxij shippes and now ............................ 8.
Oute of Laistofte vi shippes and now .......... 3.
Oute of Yarmouthe xxx shippes and now ........ 10.
Oute of Claye Blakeney and Crome xxx shippes and now ...................................... 10.
Oute of Welles vi shippes and now ............. 2.
Oute of Lynne x shippes and now ............. 2.
Oute of Boston iiij shippes and now ........... 1.

— — — — — — — —

For the North Seas xi[xx] and nowe lxxv
For Scotlond lxxviij and nowe ix.

Þann 24.(?) júní 1529 er kært tjón það, er þýzkir kaupmenn valda í Björgvin aðfaranótt 8. nóv. 1523. Þar er getið um íslenzkt vaðmál og aðrar vörur, sem gætu verið íslenzkar. (D. I. XI. nr. 97.) 1529 þann 27. júní ritar Mogens Gyldenstjerne Friðriki I. og segir honum m. a., að tvö skip hafi lagt út frá Veere (Fære) í Hollandi búin byssum og púðri og ætli til Frakklands, Englands og Skotlands, en hvert þau ætli að því búnu, veit hann ekki. Þó hefur hann frétt, að Sören Norby sé ekki höfuðsmaður þeirra, en þau muni sigla til Íslands eða Björgvinjar. Einnig kveðst hann hafa spurt til þriggja skipa, er liggi við Noreg. (D. I. XI. nr. 98.)

---

284. 

20. september 1530.

BRÉF jarlsins af Southamton til Cromwells um sjóræningjana, sem rændu flæmska eða enska skipið á leið frá Íslandi. John Chaderton og aðrir frá Portsmouth eltu þá og tóku þá höndum.

P. R. O., S. P. Henry VIII., XIII. b. nr. 139, bl. 106; L. P. F. D. Henry VIII. London 1893, nr. 393. Kemur að öðru leyti ekki Íslandi við.

Þann 19. maí 1531 ritar Ólafur Engilbrektsson erkibiskup Eske Bille höfuðsmanni á Bergenhúsi, en þar segir hann m. a., að Lýbikarar og Hamborgarar muni sækjast eftir að fá forréttindi sín til verzlunar í Björgvin, Osló og öðrum stöðum í ríkinu staðfest á herradegi, sem halda á í Kaupmannahöfn þá um sumarið, en það telur hann yrði til skaða og fordjörfunar.

Einnig verði það fátækum Norðmönnum, einkum „Norðurförum“, til mikils skaða, ef Hamborgarar fái Ísland og Færeyjar að léni. (D. I. IX. nr. 476.)

---

285. 23. maí 1531.

Óstaðsettar og ódagsettar minnisgreinar þess efnis, að „Hans Hughe is gekamen auf reff eine Yssland... hauene genomet ab anglies gamelwick“, en þá hafi komið skip frá Englandi á Grundarfjörð undir stjórn Hinricks [Borchendes] og „kofft fisck vp de Hans Hughe hebben schold“. Skjalið er dagsett „Anno xxj Mandges an de pingste“, eða mánudaginn eftir hvítasunnu 1531.

Þar eru taldar ýmsar vörur, en ógjörlegt er að greina flestar þeirra; þó er þar getið um „iij hakelbuss, xv blyg' lod, eine vorsleger“.

Staatsarchiv Hamburg, Cl. VII Lit. Ka, No. 11, Vol. 1a, Islandica 1481 bis 1532; bl. 21. Lauslega hripað með vondri hendi.

Þann 30. júní 1531 áréttar tylftardómur útnefndur af Ara lögmanni Jónssyni, að Piningsdómur frá 1. júlí 1490 skuli „haldast óbrigðanlega“ ásamt öðru, sem bréfið greinir. (D. I. IX. nr. 481.)

---

286. 1531. Björgvin.

UMKVÖRTUN skrifstofu Lýbikumanna í Björgvin um óleyfilegar ferðir (Hamborgarmanna?) til Íslands.

Ríkisskjalasafn Lýbiku, „Die ehemalige Lübeckische Handlung auf Island“, átta skjala pakki, nr. 6. Skrá Guðbrands Jónssonar á Lbs. bl. 184. Þar segir, að skjal þetta sé „afrit eða öllu heldur útdráttur“. Ekkert afrit fylgir, og útgefanda hefur ekki tekizt að afla sér frekari vitneskju um skjalið.

Árið 1532 ritar Friðrik I. Jóni biskupi Arasyni og Þorsteini

Finnbogasyni þess efnis, að þeir láti þá Peder van Spreckelszen og Dytmer Korb, ráðsmenn í Hamborg, og vini þeirra ganga fyrir öðrum, hvort heldur eru Hollendingar eða aðrir, að fá brennistein og annan varning á skip þau, er þeir ætli að senda til Húsavíkur. (D. I. IX. nr. 529.)

---

287. [Um 4. apríl 1532]. [Básendum].

AFRIT af sættargerð milli Ludtkens Schmidts og manna hans annars vegar og Roberts Legghe, Williams Hoppe, Thomasar Hirlacks, Harije Fijtzerths og Bartrams Farors hins vegar. Þeir síðastnefndu koma til hafnar að Básendum á páskadag (þann 31. marz 1532), þar sem L. Sm. liggur fyrir, og spyrja hann, hvort hann muni þola þeim hafnarvist. Þeir fá það svar, að þeim sé óheimilt að koma inn á höfnina, sökum þess að L. Sm. hafi tilkynnt Hinriki nokkrum Berndes, að hann mundi halda höfninni honum til handa. Þá fær Robert Legghe John Willers í lið með sér og freista þeir á miðvikudagsmorgun eftir páska (þann 3. apríl) að komast inn á höfnina með valdi, lögðu aftan og framan að skipi L. Sm. og skutu og slógu hann og menn hans eftir beztu getu. Árásin mistekst, og gáfu árásarmenn upp skip og góss til þess að bjarga lífi sínu. Þeir skrifuðu skipstjórum og kaupmönnum í Hafnarfirði, þeim Tönyes Jenixten og Hinriki Martens og báðu þá að koma til Básenda og sætta þá L. Sm., svo að þeir R. L. næðu aftur skipi sínu. Þeir Tönyes komu með allt sitt fólk og „landliggjara“ og sættu þá með þeim skilmálum, að R. L. og menn hans skyldu gefa þeim L. Sm. í vörum eftir íslenzku verðlagi jafngildi 200 nóbíla í fiski, en það eru 40 lestir fisks, en einnig áttu þeir að afhenda L. Sm. byssur sínar í skaðabætur. Þessi sætt var staðfest með undirskriftum og innsiglum.

Stadt Archiv Hamburg, Cl. VII., Lit. Kc, No. 11, vol 1; Islandica bis 1534, bl. 24. Óstaðfest afrit með góðri hendi.

Item so bekenne wy alse vnsze nahmen volgen In

